# Andlegt

# Versa=safn,

innihaldandi

missiraskipta= hátída= helgidaga=
kvøld=morgun=og dagleg=vers
til gudrækilegrar brúkunar
í heimahúsum.

---

Önnur útgáfa.

---

Reykjavík 1854.
Prent. á kostnad Sekret. O. M. Stephen=
sens, í prents. Íslands, hjá E. Þórdarsyni.



Þetta andlega Versa-safn er hentugt um hönd ad hafa af yngri og eldri vid mörg tímaskipti og í mörgum lífsins tilfellum, þeim til gudrækilegrar andagtar og sáluhjálplegra nota. En — hvör höfundur muni vera til þriggja fyrstu flokkanna, allra undir þessu lagi: Eilíft lífid er æskilegt, er mér ókunnugt, nema hvad fáein vers fyrirkoma í þeim, sem eignud eru prestinum séra Páli sál. Bjarnasyni, er þjónadi fyrst sem kapellan og sídan prestur á Undirfelli í Húnavatnssýslu frá 1789 til 1838, alls 49 ár, þar til hann dó 6. marz s. á. 75 ára. Hann var gáfumadur, gódur klerkur og lipurt skáld, og meinast ennfremur mörg af versunum frá bls. 171 til bls. 182 ad vera af honum kvedin. Fjórdi flokkurinn er ortur af prestinum séra Sigurdi sál. Ingimundarsyni, er þjónadi sem kapellan og prestur í Selvogs þingum frá 1767 til 1788, en upp þadan sem prestur Arnarbælis sókna í Ölvesi innan Arnes sýslu til 1820, þá hann dó þann 29. nóvembr. s. á. eptir 53 prestsembættis ár, 77 ára gamall. Hann var gáfumadur, afbragds gódur predikari sinnar tídar og lidugt skáld.

Utgefarinn.

# Innihald.



---

## Leiðrétting.

Þriðji flokkur bls. 183, les: Fjórði flokkur.

# Fyrsti flokkur

innihelдur

**missiraskipta, hátíða- og helgi-daga vers,**

øll með sama lagi:

Eilífst lífið er æskilegt.

---

## A) Missiraskipta vers.

### a) Vetrar vers.

Heitt sé þér, Drottinn! vegsemd blíð, Virðing og þakklæteð, Af englum og mennum árla og síð, A himni og jørðu téð. Aflífað sumar útendað An slísa høfum nú, Innra og ytra oss blessað Af miskun hefir þú. Enn til þín kvokum aumir vær, Eilífur dýrðar ljóminn skjær! Væga gef oss nú vetrar tíð, Væng þinn yfir oss breið, Umkringi oss þín aðstoð blíð, Afstýrðu hvers kyns neyð,

Vort þegar endast æfistríd, I eilíft sumar innleid.

---

Vetur yndælan veit oss nú Veturinn byrjada, Vetrarins herra, vor Jesú, Vetrar skjól blessada! Vetur ydrunar, vetur frids, Vetur guds nálægdar, Vetur kvittunar vondsku sids, Vetur lífs betrunar, Vetur sem stýrir velferd lífs, Vetur sem ririr þrautir kífs. I vetur ef kalla villt oss frá, Vetrinum útlegdar, Vetur og sumar vild þín á Verdi oss allstadar. Veit oss um sídir vor gud ná, Víst sælu himneskrar!

---

Vetur er kominn, sumar sól Sæl burtu burtu lidin er; Ætid veraldar allt um ból Odfluga svona þver, Utan guds nád og elskan klár Aldrei sú bregdast kann; Som er hún bædi síd og ár, Syndugan hjer vid mann. Komandi því á vetri vér Vora sál og líf felum þjer; Forda oss öllu

fári og neyd, Forlát oss misgjørder, Pína oss yfir blída breid Blessan hvar erum vér, Lífsins nær fallvallt linnir skeid, Leid oss í dýrd med þér!

---

Sjest nú á enda sumar tíd, Sjest komin vetrar stund, Sjest lækka gaungu sólin blíd, Sjest ódum følna grund, Sjest grasid falla sem í dá, Sjest snjórin allt um kríng, Margskyns sjest horfin fegurd frá, A flestu sjest umbreytíng. Jesús! þú vert oss sumar sól, Sértu Jesús vort verndar skjól, Jesús sjái voru jafnan hag, Jesús í gledi og neyd, Framferdi besta fær í lag, I fridi Jesús oss leid, Jesús um nótt, Jesús um dag, Jesús í lífi og deyd!

---

Sæl er nú lidin sumar tíd, Sé þér, Gud! lof og dýrd, Af øllum túngum ár og síd Engla og manna skýrd, Unadsemd fyrir alla þá, Er þú létst vort

[redacted] skaut, Hásæti þinu falla frá, Med farsældar blóma skraut. Vér bidjum þig [redacted] vetur eins: Vid ángurs kjørum forda meins, Alla vora þú gaungu greid, Gef lifs og sálar frid, Ástar væng þinn oss yfirbreid, Og loks um daudans hlid Utlegdar burt úr ánaud leid, Inni fødurlandid!

---

b) Sumar vers.

Eilift þakklæti [redacted] sé þér, Almáttug þrenning blid! Einn vetur nú [redacted] enda er, Uppbyrjast sumar tid. Sé nú þin miskun, herra hýr, Himin blessunar klár Yfir oss aumum elskuhlýr, Øll hér [redacted] lifsins ár. Drottinn! þin blessud hægri hønd Hjúkri oss bædi á lifi og ønd. O herra Jesú! hjá oss blif, Hér medan eigum tøf, Frá allskyns voda oss øll-[redacted] hlif, Eymdanna styttu køf. O Jesú! gef oss eilift lif Øllum [redacted] sumargjøf.

---

Lífstundir vorar líkjast vid Lidinna vetra tíd, Eptir hverja med enga bid Eymdanna dynur hríd; Lífstunda súrt þó súpum saup Sorgarvøtunnum hjá, Blódugast Jesú benjastaup Blessad oss svali þá. Okkar tár honum aptur vér, Af hjarta færum þakkláter, Oss fyrir veitta ást og hlíf Um lidna vetrar tøf; Og eptir lidid eymda kíf, Og ángistanna køf, O Jesú! gef oss eilíft líf Øllum í sumargjøf.

---

Lof sje þér, Gud og lausnari minn! Fyrir lidna vetrar tíd, Felum vér oss í fadminn þinn, Framvegis, þrenning blíd! Framar bidjum þig, fadir kjær! Um farsæld sumarsins þó, Med ástar gjædum oss endurnær, Af himni, jørd og sjó; Hvers kyns slisførum varna vid, Veittu oss lífs og sálar frid, Meingjørdum satans mest vid hlíf, Medan hér eigum tøf, Eptir mótlætis endad kíf, Og holdid

leggst í grøf, O Jesú! gef oss eilíft líf Øllum í sumargjøf.

---

Lofadur sértu, lifandi Gud! Lidin er vetrar tíd, Miskunin þín er margføldud Vid mennina fyr og síd. Vardveitt hefir þín voldug hønd, Vesælan mig og mitt, Svo engin sliss né audnu grønd, Oss hefir neina hitt; Þar fyrir ætíd þøkkum vér, Þó ekki verdi svo sem ber. Framvegis gef oss, fadir minn! Fyrir þíns sonar deyd, Sálar heill, frid og føgnudinn, Firrtir erum þá neyd; Sú er besta sumargjøfin, Svo fæst vel endad skeid.

---

Rennur oss upp ad nýju nú, Nádar og sumar ljós, Margfaldist lof þitt, minn Jesú! Makt, æra, dýrd og hrós. Ur hafi misgjørda hrópum vér, Í haf þinnar miskunar: Bjargi oss þínir blódlækir, Burt þvoi syndirnar, Ljós þinnar nádar ljómi best, Ljós trúarinnar vidnærist,

Ljós þinna orda lýsi hér, Ljós skýni kærleikans, Gef í ljósi nú gaungum vér, Glæd þú ljós skýrleikans, Med børnum ljóssins blessadir Byggjum ljós himna ranns.

---

O þú blessadi aldanna, Eilífur fadir kær! Met þú oss skipti missira Í miskun þinni vær; Med nýju sumri hinn nýja mann Nádin þín upplifgi, Svo þægilegur þér sé hann, Þinn vilja stundandi. Samvizku þjáning sefa þú, Sofandi hjørtun uppvektú, Hryggum vertu trúr huggari, Hjálp besta naudstøddum, Yfirvaldanna verndari, Børn besta þegnunum, Kjørhnossid allri kristninni, Krøptug ró deyendum.

---

Sumargjøf, Jesú! sértu vor, Sumar farsælt oss veit, Sumarsins helga sérhvert spor, Sumarfaung gefdu neyt; Sumar fridar og samlyndis, Sumar

lífs betrunar, Sumar innra manns sælgætis, Sumar Guds nálægdar; Synda kvittunar sumar gef, Sumarid þinni blessan vef. Í sumar ef burtu sofnum vér, Og súpum daudans skál, Eda hvenær sem þóknast þér, Þrjóti lífs reisa hál, Í Sumars eilífu samvistir Sjálfur tak vora sál.

---

Sólin réttlætis, sæll Jesú! Sól fegri ljóma ber, Sól upprennandi sumars nú, Sól blessud vertu mér, Sól huggunar í sorgunum, Sól gledi og fagnadar, Sól kvittunar frá syndunum, Sól als kyns fagnadar. Sól æfinnar þá sigur mín, Sól mér upprenni, Jesú, þín! Sól-bjartan mig og synda frí, Sólar grams leidi í høll, Sólar þeim dýrdar salnum í, Sól þerrar tárin øll, Sól þar ei hindra sorgar ský, Sól fegri klædist mjøll!

---

## B) Hátída vers.

### a) Á Jólanótt.

Aðfánga dagur dauða míns, Drottinn! Þá kemur að, Hyl mig í undum hjarta þíns, Hef eg þar góðan stað, Eilífrar gleði jeg svo jól, Jafnan haldi með þér. Þá er upprunnin sú mér sól, Sem að eg þrái hér; Hlakkandi fer þá hugur minn, Herra! í gleðisalinn þinn; Uppá það hrygðar eina skál, Eg vil nú súpa fús; Þegar þér sjálfum þykir mál, Þá leið mig í þín hús, Eg fel þér hjarta, sinni og sál, Sætasti minn Jesús!

---

Jakobs stjarna upp runnin er, Og oss nú af Guðs náð skýn, Vöndur Jesse nú blómgun ber, Blessun sú aldrei dvín. Ein meyja hefir alið son, Orð guddómligt varð hold, Eilífs lífs gefst því æðsta von, Oss sem lifum á fold, Fögnum nú fæding frelsarans, Flýjum ydrandi

strax til hans; Látum hans lof ei lída rird, Lýsum og hrósum þvi, Med fagnadi eru oss færd og skýrd, Fridar tídindi ný, Sé Gudi fødur sjálfum dýrd Súngin upphædum í.

---

## A Jólum.

Fagni nú himnar, fagni jørd, Fæddur er Jesús oss, Fagni nú øll hans frid-keypt hjørd, Fagnandi lifsins hnoss, Med ørmum trúar i elsku og ást, Offrandi þakklæte, Ad þvi skyldum vér audmjúkt dást, Ei draga slikt i hlé. Ur fødursins skauti frid og nád, Færdi oss blessad meyjar sád, Af øllum sem hafa ønd og mál, Aukist Guds vegsemd blid, I øllum áttum fyrir utan tál Allstadar fyrr og síd, Hans lof útbreidi hver ein sál, Sem himin og jørd eru vid.

---

Fæding i syndum flekkar mig, Fæding Jesú hreinsar; Fæding min er fátæklig,

Fæding Jesú audgar; Í fæding tárum fékk eg sád, Fæding Jesú huggar; Í fæding er dauda fyrir spád, Fæding Jesú lífgar; Fæddumst til eymda allir vér, En Jesú fæding hagræder; Fæding ad nýu færi oss nú, Fædingin Guds sonar; Fæddum Gudi æ fagna þú, Er fæding hans bodud var; Fædingin þín, fæddi Jesú! Fædi oss til dýrdar.

---

Fæddur er Jesús fögnum vér, Fridurinn kominn því Á milli Guds og manna er, Midast burt rauna ský, Upprunnin fögur edlaskjær Er Jakobs stjarnan blíd, Betlehems svalabrunnur kjær Býdst fram orþyrstum lýd, Á reisi döggin sýnir sig, Sól skein réttlætis prýdileg, Grátur er horfin, gledin sjest, Guds sonur hjá oss er, Rótin Jesse nú blómgast best, Braudid lífs veitist hér. O þú rós Sarons á þér fest Allra vor trú sem ber!

---

Blessadur Gud vor blessi jól, Blessadur tignar hár, Jesús réttlætis sanna sól, Sigurvegarinn klár, O þú, nýfæddi kóngur kjær! Kom í mitt hjartans hús, Med anda þinum oss endurnær, Eilífi minn Jesús! Upplýs vor hjørtu, hug og brjóst, Ad heidrum vér þig leynt og ljóst; Ljósid þitt, Jesú! lýsi oss, Og leidi [illegible] eymdar dal; Þad er vor gledi og hærsta hnoss, Ad heyra þitt nádar tal. O Drottinn! hjálpa øllum oss, Í eilífan dýrdar sal.

---

Gled þig nú Jesú brúdur bezt, Brúdgum þinn kominn er, Fagna þú sem ad fjølhrygdist, Fridur Guds veitist þér, Adstodarleysi í anda gledst, Adstod af himni fæst, Upplifna þú sem aumur kvedst, Eymda bótin er nærst, Fátækur er nú fullríkur, Fjøtradur eymdum afleystur, Þú nakti madur nemur skjól, Nábleikur líf ødlast, Hryggd- myrkurbúinn sér nú

sól, Siþreyttur aflýast, Þetta oss færi jeg bið jól, Jesú það afrekast.

---

Fæðingu Jesú fagni menn, Fagni sál, andi, geð, Fagni lifs æða festingen, Fagni vort hjarta með, Fagni jørðin og flóð vatnsins, Því fagnar himininn, Fagnandi barni friðarins, Fagni hvør blóðdropinn, Fagni englanna fagur her, Fagni himnanna kraptarner; Føgnum því meður fagnendum, Føgnum með þakkargjørð, Føgnum með øllum frelsuðum, Føgnum svo hér á jørð, Að føgnuð meður útvøldum, Oðlumst í himnaðýrð.

---

Um miðnætti sálar sól upprann, Sólin réttlætisins, Guðdómsins sólin Guð og mann, Gleðisól mannkynsins; Hin friðasta sól er fæst að sjást, Friðar sólskin sem band, Lifgandi sól með ljómans ást, Lýsandi sól í nauð; Innlifist

vorri sál sú sól, Sólin Jesús um þessi jól; Vid yndælis sól þá synd hjadni, Sólþerrist armædan, Séum í Jesú sólskini, Sólbirtist innri mann, Andliga sól hér sjáandi, Sól Guds í dýrdar rann.

---

Brúdgumi vor í Betlehem, Barn fæddist grátandi, Segjandi til vor: sjá eg kém, Sjúkur af elskunni; Allir sem Jesúm elska af rót, Anda Guds verkfærin, Taki brúdguma og barni á mót, Breidandi fadminn sinn; Brúdkaups salinn tilbúum vér, Bljúgt og audmjúkt þad hjarta er, Vertu Jesús velkominn hér, Vorkénn ódugleikann, Þíns heilaga anda ástgjafer Upplýsi hjarta rann, Svo allt hvad med oss býr unni þér, O Jesú Gud og mann!

---

Eilífrar sælu yndis jól, Upp munu renna skjótt, Ljómar þar fögur lífsins sól, Sem lýdum birtist í nótt, Mædu

þá hverfa myrkurin, Mótlæti einginn sjer, Eins og mins Jesú útlegdin, Umbreitt i sælu er. Þótt Jesús lægi i hey og hálm, Eg hef þad fyrir minn jóla sálm: Þar sálar fátækt og meinin min, Fyrir mótlæti Jesú þver, Lángt mun ei þar til lofsætt skín Ljós fyrir augum mér, Og opinberast sú dýrd ei dvin, Drottinn Jesús hjá þér.

---

Senn munu oss skína sigurjól, Þó synd og eymd skyggi á, Rennur þá skær réttlætis sól, Er reifum vefjast má; Ad Jesús barst oss á hey og hálm, Haldinn fátæklega, Gjøri eg ad Jóla gledisálm, Grátfeginn andlega. I anda voladir allir fá, Umvafdir syndum bót þar á, Sem taka Jesúm í trúar arm, Til þess borinn á jørd, Ad lída hér i holdi harm, Og heimfæra sáttargjørd. Væt þú i Gudi gladvær hvarm, Guds endurleysta hjørd.

---

I myrkrum synda og mótlætis Mædst høfum lánga tíd, En ljómi Guds dýrdar andlitis, Og hans ímyndin fríd, Vor nýfæddi Jesús nádar-fús, Nú skær oss upprennur, Uppljómandi vort andar hús; Æ þér hver lífs kraptur, Þjóni med trú og þolgædi, Prýdi hógværd og bæninni. Fridur þinn skíni allra á Andar og lífsins hag, Er þér hlýdni og elsku tjá, Vid yndi og mótgángs slag, Unn oss þér halda øllum hjá Eilífan jóladag.

---

Jesús veri vort jólaskart, Jesús sé æ med mér, Jesú ord veri mín jóla art, Jesús mig taki ad sér, Vek Jesús þann er svaf í synd, Sjúkum vert Jesús hægd, Sé Jesús þyrstum svalalind, Send þú oss Jesús vægd, Jesús huggi mig hryggvan mann, Handleid þú Jesú vegviltan, Frelsa, ó Jesús! fólkid þitt, Finn Jesús týndan saud, Um sár vor Jesús sjálfur bitt, Svaungum vert Jes-

ús brauð, Hreinsa ó Jesús! hjartað mitt, Haf Jesús oss frá nauð.

---

Nú er uppfylling tímans téð, Tíngast Arons vöndur; Immanúel Guð er oss með, Á reisið døgg fellur, Hirðir sauðanna sendist þér, Sem Abel teikna vann, Fyrirmindanir falla hér, Feinginn er Guð og mann. Sáttmáls ørkin oss sækir heim, Sjøfalda ljósa stjakann geym; Líf, heill, sáluhjálp fljótt eg finn, Fyrst Jesse rót er græn, Sje eg nú góða eirorminn, Á hann mín sála mæn, Jól andar bestu, Jesús minn! Já og amen er bæn.

---

Sólar uppruna sé eg nú, Í svartnætti mótlætis, Við þína fæðing, vor Jesú! Veikum til indælis; Hafi náttúrleg himinsól, Hafst krapt varma og ljóss, Þá ljós-vermist nú þessi jól, Í þér, Jesú! øllum oss; Leiptraðu í hjarta, lifga sál,

Lífs anda vermdu, helga mál, Sólskin gudrækni send oss hér, Sólar krapt réttlætis, Þín sólar børn ad séum vér, Sól-bjartir innvortis, Og sól fegri um eilífd sýngjum þér, Sólar ljód gud-ræknis.

---

Hjartans yndælust happa stund, Hug-arins rósemd frid Nú upprennur í nádar mund, Nálæga jóla tíd, Hér er Jesús sem hjálpar best, Hønd Jesú réttist mér, Sjálfum Jesú eg samteingist, Søk mína Jesús ber. O! Jesús grætur eins og barn, Æ! hvad Jesús er nád-ar gjarn, Bøggu tár Jesú væti kinn, Verm Jesú innra mann, Barns óp Jesú kýs bænstyrk minn, Barni Jesú eg ann, Kom, Jesú! hér med kjærleik þinn, Krýn, Jesú! hjarta rann.

---

Þolinmædi er mikil þín, Mildust rétt-lætis sól! ad þitt nádar ljós yfir oss

skin, Enn nú um þessi jól, Mjög höfum þó opt misbrotid, En mikil heilsa oss skér, Miklum vér því þitt módurgéd, Minn Jesú! audmjúker, Mikil furduverk, mikil nád Mesta hjálprædi oss er tjád. O! hvad er þó sú ímyndan, Oss sem ad veitist nú, Hjá eilifrar gledi alskodan, Algjörlega sjest þú, Lát oss ei hennar verda van, Voldugasti Jesú!

---

Jesús er kominn, finn hann fljótt, Fyrst hann þig heimsækir, Bjód honum gisting nú í nótt, Og nákvæmar vidtektir; leyf honum hjarta húsin þin, Hreinsud med blódi hans, Géf honum tára gledi vín, med greidvikni kjærleikans; Ef úthýsir honum, eilist bann Yfir þig fellur, vesæll mann! Medtakird' hann þá muntu fá, Möttulinn réttlætis, Ef hann þér gistir ætid hjá, Einkis fer góds á mis, Hann lofar þér sig sjálfan sjá, I sælgjæti réttlætis.

---

Margur veit eg ad mænir nú, Með trúar augunum, Upp á þig, gódi Gud Jesú! Gladur á jólunum; Utbreidda trúar armana, Ad taka sig ad þér, Og hjartans ástraka hvarmana, Huggandi sig í þér; I þeirra tølu aumaster, O Jesú gódi! komum vér, I trúar vørn þig takandi, Tárin vor laugi þig, Vidkvæma hjartad vaggan sé, Bodir, bæn audmjúklig, Kjærleiki, ljós ókulnandi, Koss, trúin ástúdlig.

---

Føgnum nú Jesú frelsingjar, Føgnum nú kristnir menn! Føgnudur Jesú fædingar, Fagnandi géfst oss enn, Fagnadar hátíd fridri á, Fagnandi séum vér Fagnadar bodskap fyrst oss hjá, Føgnudu englarner, Fagni nú hvør ein fridkeypt sál, Fagni vor hjørtu, hugur, mál, Fagni nú allt hvad fagna kann, Fagni himin og jørd, Fagnandi þokkum føgnud þann, Fagnandi drottins hjord, Fagn-

andi prísum frelsarann, Fagnadar med lofgjørd.

---

Jakobs stigi á jólunum, Jesús oss vertu hér, Um hvørn vér nú í andanum, Uppstigum Gud fyrir; Trúin vor séu trøppurnar, Til himins liggjandi, Greidendur vegar Guds englar, Gángrúmid kjærleiki, Allir kraptar þess orki best Ad þessi reisa vel lukkist, O Jesús! drag oss eptir þér, Aflvana ferdamenn, O Jesús! þess er þurfum vér, Þín veiti miskun enn, O Jesús! bædi á himni og hér, Hefjist þín vegsemdin.

---

Dalverpis liljan dýrdlega, Drottinn vor Jesús ert, Ofanstiginn í eymdina, Ad vort hjálprædi sért, Þessarar lilju lífs kraptinn, Lén oss á jólunum, Svo íbúdardalur séum þinn, Sorga í bólunum, Hjartans dalverpid hýsi þig, Hjørtun fyrir þér opni sig, Hjartnanna rós svo

heitir þú, Í hjørtunum ilmandi, Hjartad þig einan elski nú, Af øllu hjarta það sé, Í hjarta þínu oss hyl, Jesú! Hjørtun þig vardveiti.

---

b) Á Nýári.

Allir dagar sitt eiga kvøld, Ár, vikur, mánuder, Lídur svo tídin øld af øld, Inn til þess heimur þver; Ad lokum komid ár er eitt, Enn fyrir Drottins náð, Avi! vér høfum illa breytt, Og glæpum nidur sád, En hans blessada ástar þel, Allt gjørdi oss til besta vel; Hvad skulum gjalda Gud á mót, Gjædsku og þollund hans? Á hann trúum med yfirbót, Afleggjum synda fans, Og bidjum líknar innst af rót, Í nafni lausnarans.

---

Enn er oss gefid árid nýtt, Eilífi Gud eg bid, Gef oss það verdi gott og blítt Gef oss þitt hjálpar lid, Gef þú oss

bjørg og blessa ávallt, Burt rek allt kíf og tál, Gefdu oss frid og farsæl allt, Fyrir vort líf og sál, Gefdu þig háleitt heidrum vér, Heilagi Gud, sem verdugt er, Gef oss þig lofum lifandi, Lífs med réttum fögnud, Gef oss þig dýrkum deyjandi, Dýrd þín sé margföldud, Sídan um eilífd sýngjandi, Sannheilagur vor Gud!

---

Alls góds streymandi uppspretta, Aldanna fadir hár! Fyrir Jesúm voru frelsara, Farsæl oss þetta ár, Ársins umlidna alla synd, Umsnú í réttlæti, Ársins inngeingna ángurs mind, Yfirklæd gledinni; Ára tala vor ókomin, O Jesú! sé þér befalin; En medan löfum lífs á grund, Leid þú og stjórna oss; Þegar oss særir sorgar und, Sykra gjörvallan kross, Svo eptir daudann þinn fáum fund, Fegursta nýárs hnoss.

---

O þú sálnanna elskarinn, Eilíf gæsk-unnar lind! Á þessum degi umskorinn, Iklæddur vorri mynd; Dreirann sem af þér dundi þá, Daudvona saudi þín Blessadan lát þú breidast á, Bænina heyrdu mín; Fyrirgef þú ad fetum vér, Feril glæpanna burt frá þér, Æ Gud oss til þín aptur snú Idrunar fyrir tár, Blódfadminn móti breid oss þú, Beid-ist þess trúin klár, Í þínu nafni, ó Jesú! Upp byrjum svo nýtt ár.

---

O Jesú! sem fyrir auma þjód, Um-skéra hold þitt létst, Hreinsi oss vel þitt heilagt blód, Og hjarta vort þvoi bezt. Í blessadan ljúfa blódfadm þinn, Brot-legir skrídum nú, Blessadur sálna brúd-guminn, Burt hrek oss ekki þú, Bless-ad nafn géfid þrisvar þér, Þad er vort blessad frelsi hér, Fridar firmament fastasta, Frelsi, hjálp, kvittun, hlíf Á ári þessu inngengna, O Jesú hjá oss

blíf, Svo blídt fyrir nafn þitt blessada Blessist vor sál og líf.

---

Kóróna árid, Kristur minn, Med kröptugri blessun þín, Eilífa sálna svölunin Og sadning, sem aldrei dvín! Umsker vor hjörtu, herra hýr! Med heilags anda nád. Þitt nafn vegsamist, drottinn dýr! Dýrd sé þér ætíd tjád. Andans hræringu, ó Jesú! Ætíd gef oss og rétta trú; Umvef oss þinni elsku mest, Eilífur, tignar hár! Þín hægri hönd oss hjúkri best, Og hreinsi vor gjörvöll sár. Blód þitt Jesú! oss ádreifist, Eilíft gef oss nýtt ár.

---

Forgéfins þú mér, gódi Gud! Gefur lífs enga tíd. Veit mér þinn krapt, ad velgrundud Vitska mig ár og síd Leidi hvört fótmál, lífsins stig, Loknum þá árs er hríng, Yfirvegandi þekki þig Og þína nád allt um kring. Géfdu mín athöfn vandist vel, Med vísdóm og edla

hjarta þel; Svo framt þú kallar, Fadir! mig Fyrir allsherjar dóm, Ad synd-anna ydja saurugleg Sekji ei barn þitt tóm, Heldur siknsaka heidri þig Med himinsins dýrdar róm.

---

Jesú umskurnar svidi og sár Sé oss ein hressing blíd, Þetta eptirkomandi ár Og alla lífsins tíd; Ásamt hans nafni verndin vor Veri og skjøldur trúr; Til blessunar vor oss vøkvi spor Hans varmasta benja skúr; Og allar stéttir innsiglist Umskurnar sári Jesú best. Í blódi hans vor blódug sár Blædandi svali sér. Þegar á dynur daudans fár Og dvína kraptarnir, Hreppi þá fridar eilif ár Allir rétt-trúadir.

---

Aflifad høfum eitt ár vér Undir Guds hlífdar skjøld, Og nú uppbyrjum annad hér Vid ytsta heimsins kvøld. Israels gledi, andar ljós, Innflýum til þín nú,

Ad vorrar elsku eblir rós I rétt lifandi trú. Jesú umskurnar døggin dýr Drjúpi á oss þá mædan lýr; Nafnid hans frelsi naudstøddum Nú veri þetta ár, Fridarrík svølun freistudum, Fárádum vegur klár, Dýrdar fullt lifid deyendum, Daudans mýkjandi fár.

---

Arid fagnadar oss þú gef, Arid helgunar þó, Arid farsældar ekki tef, A himni, jørd og sjó, Arid sem færir engin slis, Arid lifs betrunar, Arid góds fridar innbyrdis, Ar synda kvittunar; Þakklætis ár vid þurdan kifs, Þolgædis ár í naudum lifs, Hressingar ár þeim hugmæddu, Hjálpar ár naudstøddum, Lækningar ár þeim lemstrudu, Lausnar ár herteknum, Svølunar ár þeim sorgmæddu, Sældar ár deyendum!

---

c) A páskum.

O Jesús! hjartans unun frid, Upprisa

og lifid manns, Sálar hugsvølun blessud, blíd, Blómstur ódaudleikans, Þú, sem harmkvæli, hrygd og bøl Hefur þolad á kross, Djøful sigrandi og daudans kvøl Dýrdlega fyrir oss, Unn oss jafnan í anda hér Upp ad risa med sjálfum þér, Svo vér grafanna fylsknum frá Framleiddir dóms á tíd, Sigurhróss meigum sóma ná, Sorga gleymandi hríd, Med eilífu paska-haldi hjá Heiløgum engla lýd.

---

Upprunnin dýrdar er nú sól Eptir formyrkvun sín; Fæ eg því eilíft fridar skjól, Fángelsid mitt þá dvín. Æ! hvad sorgleg var ásýnd þín, Á þínum píslar dag. Æ! hvad gledur þad øndu mín Ad sjá þinn dýrdar hag. Líf þitt gafstu til lausnar mér, Lífs og dáinn mig eigdu hér. Hjá fødur þínum fekkst mér grid, Fordæmdur þá eg var, Heilags anda mér lagdir lid, Líka þá vissi ei par,

Veittu mér eilíft fylgi og frid Frá hrygd til vegsemdar.

---

Sætasti Jesú, son Guds kjær! Sálar unnustinn minn, Lífsins eilífi ljóminn skjær, Lifir nú upprisinn. Ad afstadinni sorg og sút, Sem hann leid heimi í, Búinn er nú ad borga út Brot min, svo eg er frí. Líkamans kraptar, líf og sál Lofi þig sjón, heyrn, vit og mál. O Jesú! gef oss øllum nú Ad upprísa syndum frá. Í þínum krapti, ó Jesú! Allir sigrandi þrá. Bid fyrir mér, svo bili ei trú, Blessudum Gudi hjá.

---

Réttlætis sólin eilíf er Ur skýum daudans hýr, Øllum Guds børnum eilíf hér Upprunnin føgur og dýr. Sigurvegarinn, sæll Jesús, Sjálfur reis dauda frá, Frumburdur dauda frægstur nú, Fridar høfdingi sá; Sigradi djøful, synd og neyd, Sitt fólk leysti af allri neyd; Full þakk-

ad aldrei fáum þér, Frelsarinn Jesú kjær! Tídt þó ad mættum tala vér Túngum englanna nær. Virding, makt, speki og valdid ber, Vegsemd og lofgjørd skjær.

---

Blessadur sálna brúdguminn, Brunnurinn elskunnar, Heilagur! kom í hjartad inn, heilsugjøf brúdinnar. Upp ertu risinn, elskan skjær, Upprístu nú í mér. Uppvek mitt hjarta og á hrær Med ást á móti þér. Þér sé nú eilíf þakkargjørd Af þinni kristni hér á jørd, Ad þú keyptir oss kvølum frá, Krossfesta elskan mín! Þú létst oss auma finna og fá Fridland hjá fødur þín, Svo heilagt þér sýngjum Hósianná Í himneskri dýrd, sem skín.

---

Sigurvegarinn, sæll vert þú, Sálar brúdguminn trúr! Réttlætis sólin runnin nú Rauda hafs djúpi úr, Pínu og daudans, sem ad sér Sál þinni þrengdu ad;

Því er mér nóg að þú lifer, Það fær mig og lífgað. Ekkert fær syndin unnið mein, Engin fordæmt lögmálsins grein. Hvar er nú maktin helvítis? Hvar dauðans broddur sár? Atkvæði eru unnin þess, Afþurkuð hrygðar tár. Sigurvegara sigurvers Syngjum um eilíf ár.

---

Dauðans úr hafi aptur oss Upp er lífs runnin sól, Sem að áður í kvöl á kross Kláran sinn glansa fól. Syndar, dauðans og satans völd Sigrað fékk hún og stytt; Afallin þúngu Adams gjöld urðu svo géfin kvitt. Fagni því hjarta, fagni mál, Fagni vor endurleysta sál. Fagnandi lofum frelsarann Fagnaðar hátíð á, Fagni hver sinni friðgjöf mann; Fagnaður klingi sá, Fagnaðar uns í friðum rann Fögnum vér Guði hjá.

---

d) Á Uppstigníngar dag.

Ó Jesú, Guðs son eingetinn! Allir

þig lofum vér, Heilagur sigurhöfdinginn, Heidur og dýrd sé þér! Uppstiginn himna ertu til, Endurlausnarinn kjær! Aptur kemur annad bil, Eflaust þvi trúum vær. Lát þú oss mæta miskun þá, Minnstu ei vorar syndir á, Fyrir þad harda heljar sár, Hér sem leidst fyrir oss, Beiska hrygd, skjálfta, bænar tár, Bønd, svipur, nagla, kross, Bitrastan dauda, blódug sár Og blessadan dreira foss.

---

I dag er Kristur uppstiginn Aptur i himna rann, I dýrd sins fødurs inngenginn, Eilifur Gud og mann! Hann upplauk fyrir oss himninum, Hvør aptur luktur var, Svo vér friir frá syndunum Sælu vist hefdum þar. Fyrir oss bidur frelsarinn, Fødurinn, Jesús herra minn, Og keypti oss fagran fridarstad Farsælan himnum á, Svo eptir dapurt daudans bad Drottinn vorn fengjum sjá, Sem oss hefir lifid útvegad Um eilifd, amen, já!|

---

e) Á Hvítasunnu.

Ei sæ eg, sannleiks andinn kjær, Uppreiknad gjafir þín, Ómetanlegar eru þær Öllum skilningi mín. Þú gefur hjartans hægd og kyrrd, Huggun og þolgjædi; Kallar, upplýsir, helgar hyrd Herrans á jørdunni; Réttan kjærleika ritkar þú, Rætir Guds elsku, von og trú. Arfleifdar pantur útvøldum, Upptendrar bænrækni, Sannfæring heimi setur um Synd, dóm og réttlæti. Ver øllum sálar vandrædum, Vegsemd þín eilíf sé!

---

Ó Gud! sem helgan anda þinn Útsendir himnum frá, Postulum 12 í sama sinn, Sá er uppfræddi þá; Ýmsum túngum þá tala létst, Tignar stórmerkin sín! Vort túngu mál med blessan bezt Begáfi mildin þín. Anda bænar oss inngef þú, Anda nádar oss sendu nú. Vondum ordum oss vernda frá, Vor géf þú unun sé Um heilagt nafn þitt í heidri ad tjá,

Með hjarta og málfæri. Allt það, sem draga anda má, Einn Guð, þig vegsame!

f) Á Trinitatis hátið.

Þrenningar hátið haldin er Heilögum drottni stór. Hann skulum dýrka og heiðra vér Með heilögum engla kór. Hingað sendi Guð huggarann, Heilagan anda sinn, Í hvers kristins manns hjartarann. Heilög, kom, ástgjöfin, Yfir postula er kom fyrst Á hvitasunnu í hægum gust! Hann biðjum ætið hjá oss sé, Af hjarta eg það kýs. Herranum vorum hærsta sé Heiður, lofgjörð og pris, Og sigur jafnan syngjandi Í sællri paradis.

## C) Helgidaga vers.

a) Á Föstu.

Ó Guð! lát helgan anda þinn Oss veita styrk og náð, Svo hugleiðum í hvört eitt sinn Það himneska gjæsku ráð,

Þá svo elskadir annan heim, Útgafst þinn kjæra son, Til endurlausnar øllum þeim, Sem á honum hafa von. Historiu þinu herrans því Høfum daglega minni í. Fullnadar bót hann fyrir oss vann, Fridstilltist reidin hørd, Tinda saudi svo aptur fann, Sinni lid veitti hjørd. Med-fødur og anda heidrum hann Í hæstri þakkargjørd.

---

Lof og dýrd sé þér, Lausnari minn! Leidstu hér daudans pín. Krossfadm blessadan breid þú þinn Blidt yfir sálu mín. Sætasta sidu sárid þitt Sé nú mitt grida hús, Hvítfági sál og hjartad mitt Hjarta blód þitt Jesús. Í þin-um fadmi útbreiddum Unn mér ad blífa í heiminum; Í þinum fadmi ad enda kíf, Upprísa í fadmi þér; Í þin-um fadmi eilíft líf Af miskun gef þú mér, Um eilífd svo hjá þér alla blíf; Aldrei sú sæla þver.

---

b) Á Skírdag.

Herra Jesú! vort hjálpar ráð, Hærst sé þér virðing veitt, Andlegt borðhald þín eilíf náð Oss hefur nú tilreidt. Heilagt hold þitt og blessað blóð Við borð þitt medtókum vær. O hvað þú elskar auma þjóð, O herra Jesú kjær! Andligt húngur oss auktu hér, Andliga svo að mettumst vér. Andligt rannsak lát anda þinn Inn hjá oss planta nú, Andlegt líferni í hvört sinn, Yðrun og rétta trú. Blessaði sálar brúðguminn Bænheyr oss ó Jesú!

---

c) Á Føstudaginn lánga.

Þó føstudags lánga líði eg sorg Lúinn í eymdardal, Heppnast nóg gleði í himnaborg Og heilagra dýrðarsal. Páska daganna prýði og lyst Prófa mun eg hjá þér, Hærstuefndi Guð og herra Krist! Heiður sá aldrei þver; Alla sorg bættir útlagans, Um eilífð skínandi í dýrðar

krans. Þar mun eg lofa liðsemd þín, Lausnarinn hjarta kjær! Nafns þíns hrós sýngi sálin mín, Sifellt þá hrygðin slær. Láttu mig vera, líknin fín, Lífs og dauðan þér nær!

---

Föstudags kvöld þá komið var, Kristur til grafar hné, Og hvíldist frí af þrautum þar, Þángað til hann uppsté, A mildri páska morgun stund, Mektugum sigri með, Og gleðifullri gjæðsku lund Gafst oss þá herfángið. Lát mig vel bera byrði mín, Blessaði herra! að dæmi þín. Gröfin verði mitt svefnhús sætt, Sálina tak að þér. Er þá allt heimsins bölið bætt, Blessunin eptir fer; Við engu síðan illu hætt, Upprisan glöð þá skér.

---

f) A Bænadag.

Voldugi faðir! vernda þú Vors kon-úngs hásætið, Haldt honum æ við hreina trú, Hans ríkjum veittu frið, Styrkur

þins anda stydji rétt Stjórnendur kristninnar, Sérhver ad lifi i sinni stétt, Sem þitt bod útvisar. Barna styrjøld og villuróm, Vidhaltu þinum kristindóm, Heilagri trú og hreinum sid, Helsting andskotans megn, Blessa vort land og bygdar lýd, Bistur oss aldrei hegn, Heimleid þitt fólk i himna frid Heims alla mædu gegn.

---

Himneski dýrdar kóngur klár! Kóng vorn blessadu nú, I rósemi og farsæld, herra hár! Hans daga fjølga þú. Vertu hans hlifd og vørnin hrein, Vernda hann allt um kring, Eins og þinn eigin augastein, Eda þinn signets hring. Leid hann vid þina hægri hønd, Hønd þin velsigni hans lif og ønd. Eldlegur þinna engla múr Umkringi hans tignarstól. Vertu hans ljós og vegur trúr, Vigi, lif, skjøldur, sól. Hédan þá leidist heimi úr, Hans vertu eilift skjól!

---

g) A Sunnudøgum.

Vikunnar tídin endud er, Eilífi fadir kjær! Lof, æra, dýrd og þøkk sé þér, Þú sem oss miskun fær. Forláti oss þín fødur nád, I frelsarans Jesú nafn, Oþakklætid og illsku sád Og allra mis-gjørda safn. Uppbyrjast vikan ønnur hér; O drottinn! kom og líkna mér. Blessa vor efni, bjørg og fé, Blídasti Jesú minn! Erfidis søfn og atburdi, Ondu, líf, brjóst og sinn. Lífs søku stund ad lidinni, Leid oss í himininn.

---

Heilagi ljósins herra hár! Er hvíldar dag innsettir, Helgunar brunnur hreinn og klár, Helga oss nú í þér. Hvíl þig nú, ljúfi herra kjær, I húsi vors hjarta ranns. Einninn gef líka allir vær I þér hvílumst til sanns. Bless oss med þinni blessun nú, Blessadi herra minn Jesú! Eilíf þín blessun alla tíd Yfir oss blessud sé, A øllum lífstundum

árla og síd, í inngángi og framgángi. Innsiglist oss sú blessan blíd Bædi í vöku og svefni

---

## Annar flokkur
innihelður
### kvöld- og morgunvers.

---

a) Morgunvers.

Lifandi Jesú! lof sé þér, Lidin er þessi nótt, Vel hefir yfir vakad mér Þín voldug engla gnótt; Svo hefir ekkert sakad hér, Svaf eg í gódum frid; Fyrir þad elskan öll þér ber, Mitt eilíft hjálprædid! Einninn daginn, sem upp ljómar Allan himin til farsældar, Eg er bidjandi, einn Gud! þig, Adgjætslu

veittu mér; Annars ei óhætt er um mig, Eg því á reiki fer. Guddómsins þrenning gøfugleg, Góð eining stjórni mér.

---

Lofadur sértu, gódur Gud! Gøfgi þig øndin min, Ad eg nú heilbrigd uppvøknud Er fyrir miskun þín. Heilsugjafarinn hefir minn Heljar mér fordad stig. Andi minn skal því æ hvørt sinn Í honum gledja sig. Allt þad sem hefir andar drátt, Utbreidi hans dýrd í hvørri átt. Hels þegar stundin hætt ad ber, Hjálpi mér kraptur þinn. Blóddropar þinir blessadir Bæti øll misverkin. Leid mig sídan med ljúfum þér Í lífs ædsta føgnudinn.

---

Ljósanna fødur lofgjørd sé, Lidin er þessi nótt, Hans undir vængja hjálprædi Hefur mér ordid rótt. Í Guds nafni eg uppris nú, Og birja þennann dag. Innrættu hjá mér, ó Jesú! Ord þitt,

en lífsins hag Virstu að blessa veik- an minn, Villa lát mig ei djøfulinn Af þínum vegi, elskan góð! Andvarpið heyrðu mitt. Fyrir þín sár og blessað blóð Brotin gefðu mér kvitt. Leið mig af dauðans dimmri slóð Í dýrðar ríki þitt.

---

**Upp** er nú runnin sólin sæl, Sæl elskan, Jesú klár! Klár, sem fyrr undir hvarf vorn hæl; Hæli vor eru þín sár; Sár- kaldt þá dauðinn bakar bað, Baðið þíns unda flóðs, Flóð af syndanna þvoi það; Þaðan til æðsta góðs, Góði Jesú! þitt legðu lið, Lýðnum gef þú þinn ástar frið, Friðarins Guð, sem þjónar þín Þínum hjá lambsins trón, Trónanna sveitin skjær hvar skín, Skín þar Júda kyns ljón; Ljóni því æra sýngist sín, Sínum með fögrum tón.

---

**Lof**, dýrð og æra þýð sé þér, Þrenningin

guddóms há, Ad þinir virdtust englarnir oss i nótt vaka hjá. Bidjandi framar blessun þín, Brot synda fær i lag. Heillasöm nádar höndin þín Hjúkri mér nú i dag; Svo áform mitt og athafnir, Allt framkomi sem þókníst þér. Um allar stundir æfinnar Unn þú mér nádar þín. Blessadir Jesú blódstraumar Blædi á sálu min. Eilífi drottinn allsherjar! Oss leid i dýrd til þín.

---

Dagur nú lýsir, drottinn kjær! Dimman er horfin svört, Rennur upp sólar rodinn skjær, Réttlætis sólin björt. Ljómi þíns anda lýsi mér, Ljómi upp hjarta og sál; Samfara verdi svo sem ber, Sinni, hjarta og mál, Pýda þér færi þakkargjörd, Þrenningin tignar stór! Heidri þig menn, himin og jörd, Og heilagra engla kór. Allt þad sem hefir andar drátt, Eilífan drottinn lofi hátt. Allt sem heitir og allt hvad er, Allt þad sem hræraft má, Ljúflegast færi

lofid þér, Lambid Guds himnum á, Og eilift lof, sem aldrei þver, Amen, halelújá!

---

Drottinn! þú gefur daginn enn Af dásemd þinni ad sjá, Oss sem ad erum aumir menn, Illa margt gjørum tjá. Láttu þíns anda lífsins veg Leida oss enn í dag, Þér svo ad verdi þóknanleg Þjónkan og vinnulag. Virdstu ad geyma oss voda frá, Vondu, sem kann ad falla uppá. Breida veginum bæg oss af, Blessadur Gud Jesús! Leidi mig sá sem lífid gaf, Ljúfur og nádar fús, Í gegnum daudans dimma haf Dýrdar í sælu hús.

---

Í Guds nafni, sál mín, gaungum nú Glød þessa morgunstund Til sonar Guds í sannri trú; Sérhvør hans blódug und Opin stendur en ekki læst, Á eg svo von á þér. Dásamleg þrenning dýrdarglæst, Dýrkist þitt nafn af mér, Sárin

þín lækni sárin mín, Svali mér Jesú blóðug þín. Himneski faðir, höndin þín Hjástoð mín veri í dag, Andinn þinn hressi öndu mín, Og allann minn blessi hag, Leið mig svo þegar lífið dvín Í ljóss-barna samfélag.

---

Miskunsamasti, máttugi, Minn Guð fullur af náð! Eg aum manneskja með-kenni Mildi og hjálpar ráð, Á morgni þessum, er þú mér Allt frá móðurlífi, Til lífs og anda auðsýndir, Enn nú framhaldandi. Ekki kann eg að upptelja Alla þína velgjörninga. Önd mín dáist að því mest, Fyrir upphaf heimsins þú Elsku þína auglýsast létst, Er það mín lausnin trú, Þegar krossdauða borgun best Blóðið var míns Jesú.

---

Í Jesú nafni uppstaðinn Eg byrja þennan dag. Eilíft lof sé þér, eining þrenn, Allan minn lífsins hag, Ann-

ast hefur þín náð í nótt, Neyð og ó-
lukku frá Varðveitti mig þín gjæsku
gnótt. Greiðist þér vegsemd há! Því vil
eg nú af hjarta hér Heiður og lofgjörð
sýnga þér. O drottinn! láttu anda þinn,
Efla mig þar til best, Virðstu að styrkja
veikleik minn, Að vanda þinn lofstýr
mest, Og þar um tala sérhvört sinn, Svo
að þér velþókníst.

Eg kalla, drottin dýr! til þín Dags
þessum morgni á, Líknaraugum þú lít
til mín, Og lát mig miskun fá, Virðstu
mér aumum leggja lið, Leið mig af
glæpa slóð, Seig þú mig kvittan syndir
við Sonar þíns fyrir blóð. O drott-
inn Jesú, minnstu mín! Miskunar vernd-
in blessuð þín Yfir mér standi mild og
merk Meðan eg lifi hér. Heilagra engla
hlífðin sterk Hafi nú gát á mér, Svo
munu öll mín vikuverk Verða blessuð
í þér.

Vardveittu mig og mína í dag, Minn Guð! frá allri pín, Veit þú oss hag-stædt vedurlag, Velsigni oss hondin þín. Lát oss í vorri lífa stétt Til lofs og dýrdar þér, Og svo framgánga ætíð rétt, Eins og réttkristnum ber. En þá vor hérvist enda fær, Og heiminn kvedja skul-um vær, Gef oss þá, drottinn! himneskt hnoss Hondla i réttri trú. Fyrir bless-adan Jesú benja foss Bæn mína álít þú. Fridur Guds sé med ollum oss Æfinlega og nú.

---

Horfin er nætur dimman døkk, Dags-ljósid gledur menn. Hljóti vegsemd, heid-ur og þokk Hálofleg eining þrenn. Oss hefur skýlt med ástarvæng, Afvendad neyd og pín, Verum gladir gengnir af sæng, Oss geymdi miskun þín. Veri í dag vort verndar skjól Voldug réttlætis blessud sól, Hjálpi oss ollum hondin hans, Og hjúkri líf og sál, Hug vorn hefji til

himna ranns, Hrygdar þá drekkum skál, Innleid sídan í engla krans Oss, þegar þykir mál.

---

Gefi oss øllum gódan dag Gud fadir á himna trón, Allrar kristninnar allan hag Annist hans fyrirsjón. Englarnir beri børnin hans Blessud á høndum sér, Hér áfram inn til himna ranns, Heim þegar lifid þver. Geym oss, drottinn! á brjóst og bak, Blessandi sérhvert andartak. O Jesú! vertu øllum allt, Alltid fyrir þinn deyd; Hvert sem vér þolum heitt eda kalt, Hjúkri þín mildin greid; Hvert sem vér smøkkum súrt eda salt, Sykra þú alla neyd.

---

b) Kvøldvers.

Dagurinn lidinn er nú enn, Enn nætur byrjast tíd, Tíd dagsins fyrir þøkk sé þrenn, Þrenning Guddóms blíd! Blíd af hug, hjarta og munni med Medlætis

fyrir hag, Hagkvæmt Guds nádar gladdi ged Ged vort sorgfullt í dag; Dagur vors lífs nær úti er, Er þá vort líf, minn Gud! í þér. Þér felum oss í nótt enn nú; Nú kvøldar, vertu hjá, Hjá oss í voru brjósti bú; Bústad þinn himnum á A efsta degi, ó Jesú! Unn oss, þér vera hjá!

---

Dagur er lidinn, komid er kvøld, Kvøld-ar svo æfistund; Stund, dagar, vikur, ár og øld, Øld bodar daudans blund; Blund þann sídasta, herra hýr! Hýran oss gef þú hér; Hér þá líf stundlegt frá oss flýr, Flýum þá til þín vér; Vér høf-um þar á trausta trú, Trúudum burt ei skúfir þú, Þú, sem fyrir oss líf þitt lést, Lést oss svo hreppa frid, Fridþægda fyrir blód þitt bezt, Bezt sætta fødur-inn vid; Vid þad þín dýrd margfald-ist mest, Mest sé þér þakklætid.

---

Dagur er lidinn, komid er kvøld, Kvøldar svo æfi manns; Mannsins lífdagar, ár og øld, Øld burtlídur tímans. Tímann ber oss ad vakta víst, Víst medan frambýdst nád, Nádinni svo vér sviptumst síst, Síst skyldi slíks vangád. Gádu Jesú! oss øllum ad, Ad vér mættum í hverjum stad Stadfast trúa þig einan á A medan lifum hér. Hér þegar heimi førum frá, Frá mædu leysumst vér; Vér gef ødlumst í sælu ad sjá, Sjá þig Gud! um aldir.

---

Dagur er lidinn, komid er kvøld, Kvøldar svo æfiskeid; Skeidar í burt sú auma øld Øldungis kasin neyd; Neyd vora, Drottinn! sjálfur sjá, Sjá oss í vægd og nád, Nád þína treystum eflaust á, A þig stendur vort rád; Rád, hetja, kraptur þá ert þú, Þú drottinn! þeim, sem lifa í trú; Trú vora á efstu styrk þú stund, Stund sú oss hagar bezt; Bezt

sé þá Jesú! opin und, Und sálar lækníng mest; Mest kjósum vér þann friðar fund, Fundið Guðs auglit séðst.

---

Dagur er liðinn, komið er kvöld, Kvöldar svo æfitíð; Tíð lífs er réttnefnd eymda öld, Öldúngis sorg og stríð; Stríð hvert með æfidegi dvín, Dvínar öll sorgin þá, Þá eilífðar dagur skær oss skín Skínandi himnum á. Á jörð sorgbitnir veinum vér, Vér, sem þá fögnum gladværir; Erfiði vort er þrotið því, Því er oss hvíldin vís, Vís allra gæða nægðin ný, Nýan þá hefjum prís, Prísandi drottinn ástsemd í Í sællri Paradís.

---

Þessa dags er nú komið kvöld, Kvöldar svo æfitíð; Tíðin svo líður öld af öld, Öldúngis burt um síð. Síðasti og fyrsti vor þú ver, Verndarinn Jesú kær! Kjæra gjörandi' og þekka þér, Þér svo að lifum vær; Værar gef þú oss náðir

nú, Nú vil eg biðja, ó Jesú! Jesú þín blessuð hjálpar hönd Höndli við oss í náð; Náðar hirtíngar víki vönd, Vönd dagsins yfir ráð; Ráð, faðir góður! allra önd, Önd vor þér lof fær tjáð.

---

Þessi dagur á enda er, Er skyldt Guð lofum vær; Vær gjörum, drottinn! þakkir þér, Þér, sem oss verndað fær; Fær þú oss öllum líkn og lið, Lið engla verndar oss; Oss hefir son þinn fengið frið, Friðkeypt á hörðum kross; Kross hans vort merki sigursætt, Sætt veri og hlífðar vopn ágjætt. Gjættu vor allra nú í nótt, Nóttin svo farsæl sé; Sé oss og verði rétt vel rótt, Rótt í Jesú faðmi; Faðmi náðar oss umgirð ótt, Óttalaust hver sofi.

---

Þessa dags stund á enda er, Er komin nætur tíð; Tíð æfinnar svo fljótt burt fer, Fer í hönd dauða strið. Strið fyrir

Jesú þýngsta þitt, Þitt veittu fullting mér, Mér svo nær andlát mætir mitt, Mitt frelsist líf í þjer. Þér lídinn þakka eg, drottinn! dag, Dag nádar hvern og greidan hag; Haga svo þaunkum mildur mín, Mín verdi synd af fægd, Fægd í blódundum þýdum þín, Þín er miskunar nægd; Nægdin gjæda hvar skédur og skín, Skíni þér ædsta frægd.

---

Vak hjá oss, herra! Komid er kvøld, Kvøldmyrkri þreyngir ad, Ad flýa undir þinn skjól og skjøld; Skjøldur þinn verkar þad, Þad megum sofa rétt í ró, Rósemd veit, drottinn minn! Minnumst vors dauda og þenkjum þó, Þó sofi líkaminn, Inn í tjaldbúdir eilífar, Armædulaus mun vellyst þar; Þar verdur himnesk sælan sjen, Sjen þrenning tignarhá; Háleita Jesú blód og ben Ben synda grædir þá; Allir sýngjum æ amen, amen, dýrd, hósíanná!

Sigur dags húmid yfir ótt, Ótt tekur kvølda hér, Hér er ei nema sorg og sótt, Sótt dauda medfylgir; Fylgir Guds børnum kvøl og kross; Kross þjádum likna þú, Þú, sem leidst fyrir alla oss, Oss vægdu, minn Jesú! Jesús Guds sonur, minnstu min, Mína ønd lángar nú til þín. Þín blessud rauda lífsins lind, Lindin svølunar best, Best hreinsi vora søk og synd, Syndugir kvitterist; Kvitterist gjørvøll mannleg mynd, Mynd drottins vegsamist.

---

Sólar ljóminn nú dregst frá dýr, Dýrmæti Jesús minn! Minn styrkur vertu og hjálpin hýr, Hýr sálar brúdguminn. Inngakktu í mitt hugar hús, Hús þad skal tilreidt þér, Þér vil eg bjóda fridar fús Fúslega vist hjá mér. Mér þykir kvølda furdu fljótt, Fljótt kémur ad min daudans nótt; Nótt géf þá, Jesús! sofi' eg sætt, Sætt drykki mig þitt blód, Blód-

skuld min upp þá rjóð er rætt, Rætt af við tára flóð, Flóð það synd mína best fær bætt; Bætt sé mín glæpa slóð!

---

Dags ljós er frá oss numið nú, Nú skyggir húmið á. Alit oss blessuð þrenning þú, Þú vak í nótt oss hjá; Hjástoð vor sért en hardt ei hefn, Hefnd mýktu gjæðsknør; Orþjáðum blessa sæng og svefn, Svefnværð róliga gjør; Gjør þitt fólk verði af miskun mett, Mettað lífsstundum deyi rétt. Réttlætis sólin skíni oss skjær, Skjær sem er herrans dýrð; Dýrðarlegir þá verðum vær, Vær komnir þar í hirð, Hirðir hvør ødrum fagnað fær; Fær Guðs lof aldrei rírð.

---

Dagur er liðinn, nálgast nótt, Nótt síðsta dregst svo að, Að dauðans púnkti færist fljótt, Fljótt rennur glasið það. Það skal minna mig ætíð á, A meðan lifi eg hér, Hérvistinni snart fer eg frá,

Frá því, sem stundlegt er, Er eg girn-ist og þreyi því, Því að nú kvøldar heimi í. Í forsjón þína mig, Guð! eg géf, Géf þú mér andláts ró, Rólega eg og sætt því sef, Sefur øll mæðan þó, Þó vaki sálin utan ef, Efalaust hjá Kristó.

---

Vertu hjá oss, ó herra! hér, Hér líður daginn á; Á þig køllum nú, vor Guð! vér, Vér biðjum sért oss hjá; Hjá oss veri þín heiløg hønd, Hønd sú, sem forðar neyð; Neyðinni vora afleys ønd, Øndin svo kanni ei deyð; Deyð fyrir þann, sem þoldir þú, Þú gjør mig hólpinn, ó Jesú! Jesús, þitt blóð og signuð sár Sár græðir andar min; Min þegar linna æfi ár, Arnan mér stýri þín; Þín dýrð margfaldist Kristi klár, Klár meðan eilífð skín.

---

Gefðu mér, Jesú! góða nótt, Gefðu

mér hvíldar stund, Gefdu mér verdi gladt og rótt, Gefdu mér væran blund. Augliti þínu ad mér snú, Elskan þín fylgi mér, Í þínu nafni, ó Jesú! Eg vil hvílast í þér; Annastu bædi mína' og mig, Mildi Jesú! þess bid eg þig; Ummúrist þinni ást og náð Allt hvad mér kemur vid; Vertu mitt forsvar, verud og ráð, Veittu mér hlífd og frid; Hvar sem ad eg fer lífs um lád, Leid mig á gjæfu mid.

---

Lidid er dagsins ljósid bjart, Lídur ad nætur stund, Lídur vor æfi líka snart, Lídur ad daudans blund; Lífid hefir mér lént í dag, Lán, heilsu', ræmu og mál; Lifandi Gud! fyrir lífs míns hag Líf mitt þig prísi og sál. Framar bidjum í fullri von, Fyrir Jesúm þinn kjæra son, Misgjørdir vorar minnst ei á, Miskuna þínum lýd, Góda nótt øllum Gud oss tjá, Gefdu hún verdi' ei strid,

Unn oss þig lofa lýðum hjá Um lífsins eilífa tíð.

---

Þessa dags ljós á enda er, Eilífur drottinn kjær! Nú er oss, Jesús! þörf á þér, Þig biðjum allir vær; Vertu því hjá oss nú í nótt, Neyð engin grandar þá, Blessuð rósemdar gæzku gnótt, Géf til þess Amen, já! Bevara skepnur, bæ og menn, Blessuð hátignar eining þrenn! Hliðarnar báðar, bak og brjóst Breið yfir höndur þín, Deyf skeyti satans leynt og ljóst, Lamb Guðs, sem æðstur skín! Hjá þér útvöldum bústað bjóst, Bænirnar heyrðu mín.

---

Í þínu nafni, ó Jesú, Endurlausnari minn! Hátta vil eg og hvílast nú, Hlífi mér kraptur þinn; Ummúri mig á alla hlið Englanna verndar skjól, Uppljómi hjartans innstu mið Eilífðar fegurst sól. Þó afbrot margt hafi eg unnið ljótt,

Ei lát mig gjalda þess í nótt. Blessada andláts ordid þitt Ætíd sé hugfast mér; Veit þad og sídast verdi mitt, Á verki lífs linu hér, Sálin mín svo ad komist kvitt Klakklaust í dýrd hjá þér.

---

Dags ljóminn burtu dregst nú frá, dimmir af kvøldi fljótt; Vertu oss, herra! veikum hjá, Og vernda um þessa nótt. Afbrotin géfdu øll vor kvitt Og illsku, sem frømdum vær; Blessada, Jesús, blódid þitt Breidist út yfir þær. Réttlætis eilíf elskusól! Yfir oss sé þitt vængja skjól. Í blódfadmi þínum unntu oss Ad sofna sídast hér, Þú, sem ad lést þitt líf á kross, Lifa svo mættum vér; Fyrir þinn dauda og dreira foss, Drottinn! þad veit þú mér.

---

Hylur oss nætur húmid enn; Himinsins bjarta sól, Prefaldist æra þín, Drottinn! þú sem oss veitir skjól! Ó vor

misgjørda ótal ský, Upprunnin þér til móðs, Dags-syndir allar drýf þú i Daudahaf Jesú blóðs. Hjálprædis tef ei hærsta gnótt, Heilnæma gef oss værdar nótt; Fel eg i þina hlífdar hønd Hús, kvinnu, menn og børn, Eigid lán, heilsu, lif og ønd, Líka minn ástvin hvørn; Hvildar og alskyns heilla grønd Hepti þin fridar vørn.

---

Nær daudans røkkur, drottinn kjær, Dregur sig heim til min, Augna ljósid formyrkvan fær, Frátekst mál, heyrnin dvin, Yfirgefinn af øllum hér Einmana ligg eg þá, En ønd og lif hef afhendt þér, Øll mannleg hjálp er frá; Lát mig þá, hærsti herra minn! Hønd minnar trúar leggja inn I þina sælu sidu und, Sem mér fyrr opnud var, Þefadan um okkar fund I þinum fadmi þar Sofna út af þann sæta blund, Sidan til eilifdar.

---

Herra Jesús! þér heidur sé, Hefir þú verndad mig Í dag frá margskyns mótlæti, Mildin þín fødurlig; Um nærverandi nætur stund Nálægur vertu mér; Veittu mér frid og væran blund, Vernda frá myrkra her. Utyfir breidist mig og mitt Miskunar vængja skjólid þitt. Gefdu mér, Jesús, gledi og fró Af gjædsku þinni hér, Þá sefur holdid, sálin þó Sannlega vaki í þér, Allt þar til byrjast eilíf ró Og útvaldra sælu kjør.

---

Einn dagurinn nú endad fær, Eydist svo lífsins tíd; Líknsami fadir lífsins kjær, Lof sé þér fyrr og síd! Enn hefir himnesk hænan gód Hlíft oss med vængjum sín, Frá Guds reidi og satans grimdar mód, Svo grandi oss engin pín. Enn nú þig bidjum allir vér, Ad vort líf og sál vardveitir; Misgjørd vora ei minnstu á, Miskunar fadirinn fús! Blessan þína oss breid þú á, Blessadu menn og hús;

Í vöku og svefni vert oss hjá, Vor blessaði Jesús!

---

Dags og sólar ljós dvínar enn, Dimmir um heimsins láð; Eilíf gjæðskufull eining þrenn, Að oss hjúkri þín náð! Faðir miskunar, legðu oss lið, Ljúfa gef þú oss værð, Illum draumum oss varna við, Vélum og satans flærð; Geym oss frá meinum, mæðu og neyð, Miskunar væng þinn yfir oss breið. En þá glas vorrar æfi dvín, Eilífur Guðs son klár, Forða oss sálar sári og pín Fyrir þitt hjarta sár; Þig svo að lofum, þú, sem skín Þrennur um eilíf ár.

---

Vertu nú hjá oss, herra hár! Heims kvöldi líður að; Hver dagur, vika, öld og ár, Óðum burt hverfur það. Dauðans þá yfir dregst oss nótt, Drottinn, þín miskun blíð Hvílast láti oss hægt og rótt, Hept þú allt kvala stríð. Í

signadri þinni sælu und Sálin vor hvilist laus vid grønd. En á medan vér hjørum hér Heimsins vid ramma slag, Gef ad med ugg og ótta vér Umhyngsum sálar hag. Eptir lifid gef oss med þér Eilifan gledi dag.

---

Gefdu oss øllum góda nótt, Gud! fyrir útan þin, Svo ad vér kunnum sætt og rótt Sofa í fadmi þin. Vakt hald þú yfir vorri sæng, Verndarinn Israel; Skýl oss med þinum vørzlu væng, Vor kær Emanúel! Annastu oss á bak og brjóst I blundi og voku leynt og ljóst. Hver dúrinn ødrum sætari sé, Sidasti bestur þó; Hver dagur ødrum indælli I herranum Kristó; Hver føgnudur ødrum farsælli, Farsælust eilif ró.

---

O Gud! sem medur ædstum krapt Erfidi settir dag, En nótt til hvildar hefir skapt, Heldur þvi enn vid lag; Af fødurlegri

ástar rót Allt gott oss veittir þú. Allt þó fremdum þér illt á mót, Allt fyrirgef það nú. Þinn engla skari nú í nótt Nálægist oss, svo verði rótt. Vertu oss sjálfur, herra! hjá. Hjástoð þín geymi oss bezt; Bezt þegar lífið endast á, Á þér vor trú sé fest; Fest oss í örmum þínum þá, Þá er vís dýrðin mest.

---

Ó þú réttlætis sanna sól, Sonur Guðs Jesús minn! Undir þitt flý eg ástar skjól, Aumust þín barn-kindin, Andvarpandi af öllum þrótt Upp til þín, kóngur hár! Léna oss þína líkn í nótt, Lát ekkert granda fár; Með útbreiddum ástar örmum þín Umfaðma líf og sálu mín, Engin svo fái óvinur Af þér mig burtslitið, Heldur þar blífi eg blessaður Og behaldi þínum frið; Í lífi og dauða, Guð góður! Gef mér þitt hjálpræðið.

---

Kvöld þessa dags er komið nú, Kom

ædsta fridar gnótt, Verndarinn besti vor Jesú! Vertu hjá oss í nótt. Kvøld minnar æfi kémur víst, Kortud lífs stundin er; Daudinn kemur og dvelur síst, Drottinn! hjálpa þú mér. Kvøldi heimsins er komid ad, Kemur eilífdin eptir þad. Eilífan gef oss andar frid, Ædsti lífgjafarinn! Heilagi andi, legg mér lid, Líknsamur æ hvørt sinn. Heyrdu nú, drottinn, hvers eg bid, Heidrist Guddómur þinn.

---

Dagsljósid oss nú dregst frá sjón, Dimmir af kvøldi enn. Jesús! þín fegurst fyrirbón Fridþægi oss auma menn. Láttu blessadan blódsadm þinn Breidast út yfir oss, Sem þú útbreiddir alsnakinn, Er þú leidst pínu á kross. Láttu blessada blódid þitt Brot vor afmá og gjøra kvitt. Gef ad vidbúnir verdum vér, Þá vor kemur daudastund. Gef oss med andláts ord þín hér, Ad

uppbyrja sídasta blund; Æ gef svo hvílumst innlæstir Í þinni sídu und!

---

Fadir ljósanna, fadir kjær, Fadir eilífur Gud! Brunnur lífsins, þig bidjum vær, Børnin þín krossþjøkud: Syndu oss øllum nú í nótt Nákvæma vernd og hlíf; Veit ad oss øllum verdi rótt, Vardveittu sál og líf. Þitt engla lid sé oss allt um kríng Óbrigdull múr og stadfesting. Undir þad skjólid flý eg fús, Frelstur af allri pín. Frá myrkra veldi menn og hús Miskun vardveiti þín. Í þínu nafni, ó Jesú! Alíttu beidni mín.

---

Ó þú réttlætis sanna sól! Sú spekin ástúdleg, Sem ad ert allra skjøldur, skjól, Skrid eg fram fyrir þig, Ad fótum blídum frelsarans, Flatur med audmjúkt ged, Míns góda herra, Guds og manns, Grátbeidni hjartans med: Blíf hjá oss, herra! nú í nótt, Næsta tekur

ad kvølda skjótt; Önd og líf frelsa illu frá, O drottinn Jesú kjær! O, hvad ofs gledja og hugga má Heppnast lát fjær og nær, Svo hjá þjer lendum himnum á, Heiløg Guds þrenning skjær!

---

I þinu nafni, nádin þýd, Nú vil eg sofna skjótt. O minn Jesús! þin elskan blíd Yfir mér vak í nótt. Gef þú mér sætan svefn og ró, Sálar brúdgumi minn! Vek mig upp aptur árla þó, Ef þad er vilji þinn. En skuli eg detta í daudans blund, Drottinn! um þessa nætur stund, Fyrir þinn dauda, sár og þrá, Frelsarinn! gef mér frid; Af því eg engu megna má, Minn Jesú! veit mér lid. Hugsadu nú, minn herra! á, Hvers eg sorgandi bid.

---

Sár þegar daudans svefnin hér Sigur í brjóstid inn, Lamb Guds saklausa! líkna mér, Lid mannlegt hvergi finn,

Lausnari minn! sem leystir mig, Og leidst á krossi deyd, Blessadur Jesús! bid eg þig, Burt taktu alla neyd. Sæti gud! þína svölun þá Sálin mín ørmædd girnist fá; Pad mun mér nægjast, herra hýr! Hjartans kvøl øll mun stytt, Angur og mæda á burt flýr, Eignast eg ríki þitt. Heiløg þrenning! i hæd sem býr, Heyrdu nú kallid mitt.

---

Pegar ad daudans dimma nótt Dregst yfir augun mín, Missi eg bædi megn og þrótt, Minnid og heyrnin dvín, Æ mildi Jesú! elskan blíd, Andvarp mitt heyrdu þá, Pví allra mest á þeirri tíd Pjádum mér liggur á. Englanna skari øndu mín J eilífa flytji dýrd til þín. Hún hvílir þar med hægri ró, Horfin øll mædu tár, Allskyns sælunnar fridar fró Fær þar um eilíf ár. Lífs hvad sem er um lopt og sjó Lofi þig, drottinn klár!

---

O herra Jesú, hjarta mitt! Hvílast vil eg í þér, Eins láttu blessad ordid þitt Jnngróid verda mér; Þad gefur farsæld, frid og nád, Fagnadar tilhløkkun; Eblir og styrkir allt mitt rád, Eykur mér hugsvølun; Leidir sídan til lífsins inn Í ljómandi dýrdar hópinn þinn, Sem er útvalin yndis hægd, En ekkert gledi bann, Þekking og valin nádar nægd, nálægd vid Gud og mann, Samvalid, heidur, frelsi og frægd Fyrir mig syndugan.

---

Dags sólar er nú dvínad skart, Og dimman komin á; Eilífa ljósid yndisbjart, Yndi sálunni ljá! Rétt mér nákvæma nádar hønd, Nidur graf synda skærd, Tef ei ad hepta heilla grønd, Heilnæma gef mér værd. O herra Jesús! minnstu mín, Mína ønd lángar nú til þín. Allra sídast þá stridhætt stund Stridir á fjørid mitt, Sofna lát mig þann

sæta blund, Sælu gef fái eg hitt; Náda mig fyrir þitt nafn og und; Nafnid sé blessad þitt.

---

O hjartans Jesús! eg bid þig, Adstod min sértu bezt, Í hverskyns sorg, sem ángrar mig, Adhjúkrun sýndu mest; Haf þína nádar hønd á mér, Hátignar blessud sól! Svo eptirfylgi eg ætid þér, Einasta hjálparskjól. Yfir mér vaki vel í nótt Þín voldugleguſt engla gnótt. Haldtú mér jafnan helst þig vid, Hér á medan eg blif; O Jesú, Jesú! eg þig bid, Eymdanna styttu kif; Leid mig svo þér á hægri hlid Hédan í eilift lif.

---

Lof sé þér, Gud! fyrir lidinn dag, Lídur ad nætur húm, Blessadu þinna barna hag, Blessa vort legurúm; Umsjón þín sé oss allt í kring, Eflaust þá sofum rótt; Heilagra eingla herfylking Hjá oss vaki í nótt; Fornu syndir og nýar nú, Í

nafni Jesú fyrirgef þú. Fadir! tak mig í fadminn þinn, Þar finnum hvild og skjól. Sídasti þegar svefnhøfginn Sjónar formyrkvar hjól, Upprenni oss þá ódulin, Eilif réttlætis sól.

---

Vert hjá oss, herra himna ranns! Hér því kvølda tekur, Dagurinn lidinn sjest til sanns, Sem ad oss upp vekur, Ad minnast þess vor æfitíd Endast þá minnst varir. Gleymdu nú, eilif gædskan blíd! Glæpum, sem frømdum vér. Fyrirgef, fyrirgef, fyrirgef oss Med fødurlegum ástar koss! Himneska Sions helgust rós, Af hjarta þig bidjum vér, Einkanlega um eilift ljós, Ad ørends dúr lidnum hér, Svo ad útvaldra sigur hrós Sýngja mættum hjá þér.

---

Nætur húmid oss nálgast enn, Nemur dags ljósid frá, O! hvad vér erum aumir menn, O Gud! vak þú oss hjá! O

þú himneska edla rós, Upplýstu oss í náð, Þú ert vor vegur, líf og ljós, Ljóma vor hjörtun þjáð. Vorar sálir þær vaki í þér, Vært þó líkaminn sofi hér. Unn oss heilbrigðum upp að stá, Eptir vild þinni þó; En ef burt kallar, opna þá Oss himin, sem Stefanó; Eilíft föðurland fylg oss á Í frið og eilífa ró.

---

Guð gef oss öllum góða nótt, Guð sé vor vernd og hlíf, Guð lát oss verða glatt og rótt, Guð blessi sál og líf. Ásjána Jesú yfir sé Öllum Guðs barna krans, Andar saurindi af þvoi Undanna blóðið hans. Heilagur andi, huggarinn, Hjörtu vor gjöri bústað sinn. Flýum nú Krists í fángið mætt, Það fasta slot, vígi og hús. Mín fær þar gjörvöll meinin bætt Miskunin náðar fús. Láttu oss í þér sofna sætt, Signaður Guð Jesús!

---

Gleymum því ekki, Guðs börn kjær! Að gjæta hvað áfram ber, Einum degi nú erum nær Æfikvøldinu vér. Dagsljósið þegar dyljast fer, Dimm nótt umkríngir lýð; Burtferðar tíminn óviss er, Allt hefir sína tíð. Fyrri enn sofnum flýum nú Í faðm og undir míns Jesú; Þar er vort hæli, hvíld og skjól, Huggun í lífi og deyð. Mildi Jesús! sem meyan ól, Minnst vor í síðustu neyð, Sýn oss þig, himnesk sanna sól! Í sælu eilífa leið.

---

Dagur er liðinn, drottinn minn! Dimm nótt enn fer í hønd. Friðasti Jesú, frelsarinn! Fel eg þér mína ønd. Minnstu ei á mín synda sár, Sár þín þau græði best, Og þín blessaða blóðund klár Bæti nú hvørn minn brest. Láttu mig sofa sætt með ró, Sæti Jesús! sem heill mér bjó. Unn mér dags ljósið aptur sjá, Ef þinn vilji það er; En ef

ad lífið endast á, og hjervist stundleg þver, Leið mig í eilíft ljósið þá, Lifandi Guð! hjá þér.

---

Dagur er liðinn, dregst að nótt, Dags ljósið burtu fer; Daga tal mitt svo dvínar fljótt, Dagstund lífs fallvølt er. Á hverjum degi ættum þá Andláts að þeinkja um dag, Svo að oss dauða degi á Dags verk þau komi í hag. Í dag er náðar dagur enn, Dagliga um það þeinki menn. Morgundagurinn óviss er, Í dag sé þar að gáð; Í dag, í dag því ættum vér Að endurbæta vort ráð, Vera svo hvern dag viðbúner, Vissir um Jesú náð.

---

Herra minn Jesú! heyr þú mig, Húmar að kvøldi nú, Eg treysti jafnan upp á þig, Af því mér hjálpar þú. Mér hefur blessuð miskun þín Miskunað enn í dag, Verndað frá øllum voða og

þin, Og vikið øllu í lag. Leyf að mér verði leingur rótt, Láttu mig sofa vel í nótt, Og uppstanda á morgun alheilan, Ef það er vilji þinn. Virðstu mig leiða veg réttan, Veittu það, Jesús minn! Hér þegar skil eg heims við rann, Í himininn tak mig inn.

---

Dags lok nú boðar dimman svørt, Dauða hún minnir á; Sanna réttlætis sólin bjørt Síst hverfi oss burtu frá. Vort hið þúngbæra synda safn, Sem allt til himins nær, Fyrir þitt blessað frelsis nafn Forláta biðjum vær. Send oss náttværðir sætar enn, Sign og bevara hús og menn. Ef oss burtkalla þóknast þér Úr þessum nætur blund, Vilji þinn góður verði hjer, En veit fyrir sjálfs þíns und, Í Abrahams faðmløg víkjum vér Á vorri andláts stund.

---

Guð gefi oss øllum góða nótt, Guð

vaki oss sjálfur hjá, Gud láti oss verda gladt og rótt, Gud, vér þig treystum á. Gud, vort ránglæti géf oss kvitt, Gud, fyrir Jesú blód, Gud, svo ad nafnid gøfgist þitt, Gud fordi oss øllum mód. Gud vora hrellda gledji ønd, Gud leidi oss alla sér vid hønd. Gud géf' oss aptur gódan dag, Gudi svo þjónum hér, Gud veiti oss øllum gjæfu plag, Gud! svo ad lifum þér. Gud blessadur vorn greidi hag, Gudi svo deyjum vér.

---

Eg fel mig nú og sérhvørt sinn, Sætasti Jehóvá! I blessadan fridar fadminn þinn Og fødurliga umsjá. A vald þitt leggjum líf og sál, Lát oss svefnværdum ná, Géf vit, sjón, heilsu, heyrn og mál, Háska drif allan frá. En þegar stundlig æfi dvín, Innleid oss þá í dýrd til þín, Ad sjá þíns auglitis ástar sjón, Eining þrenn hábléssud! Þakklætis sýngjum sigurtón: Synd er kvitt, tár þerrud.

Fyrir Jesú nafn og blída bón, Bænheyr oss, drottinn Gud!

---

I nafninu Jesú nú leggst eg Nakinn í hvílu mín, Umvefri mig á allan veg Almáttug hondin þín. Breid þú yfir mig blódfadm þinn, Blessadur minn Jesú! Hlífi mér æ í sérhvört sinn Þín signud verndin trú. Annastu lífs og lidinn mig, Ljúfi Jesú! þess bid eg þig. En þegar heimi fer eg frá, Og fráskilst lífid mitt, Ljúfasti Jesú! leid mig þá I ljómandi ríki þitt, Hvar mín sála mun finna og fá Fagnadar athvarf sitt.

---

O þú guddómsins eining þrenn! Odaudligt lof sé þér, Dags ljós er eitt á enda enn, Er þad lærdómur mér: Ein mædu stund er endud nú I þessum tára dal, Einni stund nær, þad er mín trú, Er eg gledinnar sal. Fyrir þvi skrid eg flatur nær Ad fótum þínum, Jesú kjær!

Géf þú øllum gledistund, Géf þú oss náð og frið, Géf þú oss værd i vøku og blund, Vort blessa augnamið. Þina rósrauda oss opna und, Þá eigum hér skilja við.

---

Kvøld mins lifs þegar kemur hér, En kalda daudans nótt A alla vega adþrengær, Og beinin missa þrótt, Syndanna fjøldi sakar mest, Samviska er stødd í neyd, Ekki þá fyrir annad sést, Enn andar hrepp' eg deyd: Líttu þá, Jesús minn! til mín, Minnstu á þina sáru pín, Og á signada sveita þann, Sem af þér pressadist Fyrir mig seka syndarann, Nær sál þín ormæddist; Leid svo med fridi loks hédan Í ljómandi dýrdar vist.

---

Eilifi Gud, min vera og von! Vil eg nú hátta skjótt, Rikur af náð fyrir sælann son Sendu mér værd i nótt, Blessadur hans ad blódsveiti, Er beiskast út-

rann vid mein, Andar saurindi af þvoi. Almættis höndin hrein Breidist ad minn höfdi hér, Hrygdarlaus rósemd sé hún mér, Abreidan, vernd af allri pín, Undirdýnan, mitt skjól. Géf mér uppvakna í geymslu þín, Gladværust morgun sól! Ad eilíft sigur hrós öndin mín Edli þér Lambs hjá stól.

---

Miskuna þú mér, mildi Gud! Af mikilli gjædsku þín, Sjá í mér byggir synd eitrud, Sótt, vesæld, eymd og pín. Umbreitanligt er edlid mitt, En einn og sami þú. Afbrotin mín þú öll géf kvitt, O drottinn! til mín snú. Gódar værdir oss géf í nótt, Gráthryggum virdstu ad líkna skjótt; Blódfadm þinn yfir breid þú mig, Blessa minn hvílustad; Fyrir kvöl þá, sem þjádi þig, Þitt nafn sé vegsamad; Leid svo heilbrigdan ljóss á stig Í lífs eilífs háfagnad.

---

Æ hvað mín synda andstygð ljót Ofur stór var í dag, Veit henni, Guð! mér vinna á bót Vongott með hjarta-lag. Myrkurin dynja megn að nú, Mitt er ei hjartað rótt, Alla synd mína, ó Jesú, Afmá og hreinsa í nótt! Fleyg henni burt, svo fár sé kvitt, Í for-þénustu hafið þitt. Alskínandi þinn engla krans Ummúri hvílu mín. Endurnýjan míns innra manns Efl þú með Jesú þín, Að vaknaður lof til syngi sanns Sannhelgu nafni þín.

---

Komin er nótt, en dvínar dag, Drott-inn minn Jesús kjær! Alsærð manneskja af eymda hag, Eg skríð væng þínum nær. Fyrir líf, heilsu og lánið mitt Lof segi önd mín þjer. Illska syndanna öll sé kvitt Og afplánuð vel af mér. Blóð-dropi hver þinn blessaði, Sem blæddi út á krossins tré, Yfir mig dynji á andláts stund, Eins þó hún verði í nótt.

Sé svo mér annan ætlir blund, Upp-
vakna lát mig rótt, Að syngi eg þér pris
af ljúfri lund Lífs firrtur harma sótt.

---

Yfir mig, drottinn! aumka þig, Eg hátta
í nafni þín, Illsku syndanna afklæð mig,
Þá aflegg eg fötin mín. Líknsamur til
mín líttu nú, Læðast að myrkurin, Hjart-
ann minn hvefsing bú, Hjálpi mér styrkur
þinn. Blóðundir þínar blessaðar Blæði
á mig til hreinsunar. Láttu mig sofa
vært og vel Í vernd og skjóli hans,
Sem endurleysti Ísrael Og yfirvann
makt dauðans, Að hrósi þér allt mitt
hjartans þel Með himneskum dýrðar
glans.

---

Kvöld dagsins er nú komið enn, Kvöldar
í táradal, Kvöldið æfinnar kémur senn,
Kvöldvinna mín nú skal: Jesús! þig
biðja blíðt um náð, Befala eg mig þér,
Jesús minn! láttu mein afmáð, Misverk

og illgjørdir. Jesús! mér gefdu góda nótt, Svo géti eg sofnad vært og rótt. Jesús minn! þína blessan breid Bædi á sál og líf, Jesús minn! ángri og eymdum eyd, vid øllum voda hlíf. Jesús minn! varna vondum deyd, Vak yfir mér og blíf.

---

Ur hrygdar djúpinu hrópum vér, Himneskan drottinn á: Vertu hjá oss, ó herra hér, Húmar nú dag ad sjá. Kvøldid lífsdaga kémur ad, Kvøldid veraldar senn, Kvøld máske verdi þetta það, Það, sem nú nálgast menn. Grædarinn Jesús! gakk þú inn J guds barna hjørtu velkominn. Komi stund blessud þessi þín, Þínum munt fagna þá. Komid þid blessud, børnin mín, Blídur mun herrann tjá, Og eigníst það ríki, er aldrei dvín, Amen, Hallelújá!

---

Vertu hjá oss, því komid er kvøld,

Kjærasti Jesús minn! Viktu ei burt, því vesnar øld, Vakir óvinurinn. Hjálp oss, drottinn! á hverri stund Honum að standa mót, Farsælan géf oss friðar blund, Friðasta Jesse rót! Þegar vor æfi þrotin er, Þýðasti Jesús! líkna mér; Minni sálu þú svala best Af sætleik náðar þín; Aldrei þá framar á mér sést Andarrík sorg né pín. Í þinu nafni eg afklæðest, O Guð! heyr bænir min.

---

O Jesú, Jesú, Jesú kjær! Eg til þin aumur flý, Líður dags burtu ljóminn skjær, Leggst eg nú hvilu í. Umkringi nú þin engla gnótt Allan minn sængurstað, Hljóta svo mætti eg hvild í nótt, Heyr þú, minn Jesús! það, Pað: blóðugu synda brotin min Best hylji forþénustan þin. Hrædda samvisku hverja stund Huggi þitt guðligt mál. Skuli eg heljar bíða blund Og bergja af dauðans skál,

Helgast þitt blód úr hjarta und Hugsvali mæddri sál.

---

Himneski Gud og herra minn! Heidur og lof sé þér Fyrir allt gott, er sérhvørt sinn Syndugum veitir mér. I dag þin hefur umsjón mig Annast og gjætt mér ad. Mjøg hefi eg styggt og módgad þig, Minn Gud! æ forlát þad! Blessa oss alla nú i nótt, Ad náum sofa vel og rótt, Gladir svo aptur vøknum vér Og veitum þér lofgjørd þá. Unn oss ad lifa eins og ber Ætid hédan i frá, Sidan um eilifd sýngja þér Sæta dýrd himnum á.

---

Dagsins 12 stundir dvinadar Drýgja lifs runnid skeid; En kortast braut til eilifdar, Eymdanna stytta leid. Nú er þad komid nær enn var Nætur húmid daudans, Allt er þad eins og ekki var Undir stórmerkjum hans. En mig ángrar

þó allra mest það, Afbrotin hafa margfjölgað. Jesús minn! Jesús! vend í vind Verðskuldun vorri hér. Jesús minn! Jesús! svipt burt synd, Að sálgi hún ekki mér. Jesús, minn Jesús! lífsins lind, Legg oss á herðar þér.

---

Kvöld þessa dags nú komið er, Kristur! eg prísa þig, Því að hjálp sendir mikla mér, Af miskun framleiddir mig. Eg bið þig líka enn í nótt, Aðgætslu veittu mér; Þó sofi líkaminn sætt og rótt, Sálin mín vaki í þér. Eins þó að dauðinn dragi að hér Djarfur og vilji granda mér, Ertu þá, Jesús! allt mitt lið, Einasta hjálpin mín. Eg vil því gjarnan gánga í frið, Grimd dauðans frá til þín; Lífið þú ert, þig líknar bið, Lífsins uppsprettan fín.

---

Kvöld þessa dags er komið nú, Kortast mitt lífsins skeið; Alls góðs uppspretta,

ó Jesú! Allri mér forda neyd. Veit mér ad hvíla vært í nótt Væng undir hlífdar þín, Sídan uppvakna sætt og rótt, Svo vil eg lofgjørd þín Útbreida lífsins alla tíd; Ebli mig þar til nád þín blíd. Lát þú mig, Jesú, lofgjørd þín Af lífs innstu krøptum tjá. En þegar stundleg æfin dvín, Unn mér þér gledjast hjá Í því ljósi, sem eilíft skín, Einn Gud og þrenning há!

---

Gud gefi oss øllum góda nótt Og grædi vorn ángurs mód, Syndanna vorra safnid ljótt Søkkvi í Jesú blód. Fári og grandi frá mér snú, Forda mér allri pín. Afstrík lífshænan, ó Jesú! Ungunum hjúkra þín. Blódvængja þinna blessad skjól Breidist mig kríngum nú. Ó þú réttlætis edla sól, Yfir mig ljóma þú. Fridar blódraudum fadmi þín Fel eg, minn Jesú! øndu mín; Einkum þá daudans mirkur megn Mig

vilja skyggja á, Blóðsveitinn þinn og benja regn Bjargi mér aumum þá. Andvarpan minni, Guð minn! gegn, Gleð mig þér sjálfum hjá.

---

Veittu oss, drottinn! náð í nótt, Náð þín bevari oss, Náð gef, Jesú, í neyð og sótt, Náð í mótlætis kross. Náð virstu sýna náðargjarn, Náða og geym frá pín, Náða þitt, faðir! nauðstatt barn, Náðin endalaus þín. Náðugur vert, svo náðin fljót Náðþurfum gefi synda bót. Náðar dyrnar þú nú upplát, Náðar ríkur Jesús! Náðar biðjandi nú með gát Náða oss friðar fús; Náðugur síðan leiðast lát Í lífsins og dýrðar hús.

---

Heilög Guðdómsins þrenning þýð Þessa um dimma nótt Yfir mér vaki björt og blíð, Bevarandi mig rótt; Heilagur engla hópur klár Hér sé nú skjaldborg mín; Frelsarans Jesú signuð sár,

Sálarhrygd, kvøl og pín, Veri mitt skjól og blessud borg Bædi í medlæti og sorg. Allra sídast þá andláts neyd Ønd skilur kroppi frá, Son Guds, fyrir þinn sára deyd Sálina medtak þá Og inn í eilíft ljóss innleid Ljómandi þér í hjá.

---

Kominn er dagur kvøldi ad, Kjær Jesús! lof sé þér, Allt fortar vora æfi þad, Allt svo til þurdar fer. Tímaglasid ei tefur vid, Trúid því børnin fróm, Aldrei veit, nær enn af fallid Er vort lífstunda blóm. Drottinn Jesús! þín dreira lind Drjúpi á oss og hreinsi synd. Fadir nádar oss fyrirgef Framferdid illt og ljótt. O Jesú! kom og ei vid tef, Yfir oss vak í nótt, Elskunnar skauti oss um vef, Allir svo hvílumst rótt.

---

Kvøldid dagsins er komid enn, Kvøldar í heiminum, Kvøldid æfinnar kemur senn, Í kvøld strax nú synd kvittum,

Því ad í dag, sem sérhvort sinn, Sorg-andi játum vér: Høfum syndgad í himininn, Herra Gud! fyrir þér. Æ vægdu, vægdu, vægdu oss nú, Vægdu oss aumum, ó Jesú! Veri oss þín pína, svidi og sár Svølun í mædunum, Þurkandi øll vor tregatár, Talandi í himninum, Hjúkr-andi í nótt, svo hverri fár, Hjálpandi í daudanum.

---

Lát mig hugleida, herra minn, Heidur og sóma þann, Sem eg skal fá nær inn-kominn Er í himnanna rann. Englum þín og útvoldum hjá Um eilífd eg gista skal. Med egin augum þig sjálfan sjá Og sífeldt heyra þitt tal. O drottinn! þess unn þú mér, Um þad nú fullviss sofa fer. Vardveit mig øllu illu frá Í nótt og hverja tíd, Verndan þinni mér haltu hjá, Hvíldin svo veitist blíd, Greidist þér, þrenning guddóms há! Gottlof eilífa tíd.

---

O Jesús! geym mig enn í nótt, Eg vil til rekkju gá, Afstýr þú fári, sorg og sótt, Sjálfur oss vertu hjá. Hvildu Jesú! í hjarta mín, Og heilagur andi þinn, Búdu mér sæng í sárum þín, Svo er eg ókvídinn. Sálin, þó lifid sofi mitt, Sjái í trúnni andlit þitt. Lýsi henni og leidsegi Ljós þinnar nádar best. Hendin þín blíd oss bevari, Burttaki meinin flest. Húsin, fólkid og heimili, Herra! þér afhendist.

---

Góda nótt býd eg gladur nú, Gudi svo befel mig, Fadma oss ad þér, ó Jesú! Augun vor horfi á þig. En þá hinn sídsta dauda dúr Dapur eg sofna skal, Og bana drekka bikar úr Borinn í grafar sal, Líf mitt og sál þá sveiptu inn Í sveita dúk þínum, Jesús minn! Láttu önd mína frída fá Fridarins víst hjá þér, Og med fögnudi finna og sjá

farsælan engla her, Líka með honum lof sætt tjá, Lof þitt um eilífðer.

---

Himneski Guð! á himna sal, Huggunin vrþjáðra, Sem hér í myrkum dauðans dal Daglega andvarpa, Eg þín óverðug sképna skríð Skør þinna fóta að, Fórnar kvøldoffur fram svo býð, Forsmáðu Guð! ei það. Líf mitt og sálin lofar þig, Leidt hefir enn og verndað mig A þessum degi illu frá Og æfi liðna mín. Hjartanlega eg minnast má, Mikil er gjæðskan þín. Þér skulu allir þakkir tjá, Þú, sem á himnum skín.

---

Að þínum fótum, Kristur kjær! Kasta eg sekum mér, Náðþyrstum gjæðsku tryggri tær, Trú mín er øll á þér. Láttu blóðið úr benjum þín Blæða mitt hjartað á, Svo yðrunar tár af augum mín Aptur framrenni þá. Grunnlausi brunnur gjæðskunnar! Géf þú mér kvittar

syndirnar. Lausnar gjaldid, sem lagadi Látins úr þinni und, Öll mín viku verk upp bæti Um alla lífsins stund, Og mér hreinsudum útvegi Eilífs lífs sælu fund.

---

O Gud! eg bid af audmýkt þig, Ad í nótt gjætir mín, Fyrirsjónin þín sødurlig Fordi mér neyd og pín; Englum heilögum umbjód þú, Ad í kringum mig Sé, á medan sef eg nú, Sett vaktin kroptuglig. En þá sídasti svefnhøfginn Sigur ad mér med vanmáttinn, Blessadi Jesús! blódid þitt, Bid eg ad sál mín hér Svali þá, þegar sídast mitt Sárt strid í dauda er. Æ! géf mig kvittan um allt hitt, Er eg braut móti þér.

---

Gud gefi oss øllum góda nótt! Geng eg svo hvílu til, Hvørt mér heim bidur svefn eda sótt, Sama eg tala vil: Gladur

sofna frá glauminum, Góðan að hreppa blund, Hér með og líka heiminum, Hvenær sú kémur stund. Lof sé þér, Guð! fyrir liðna tíð, Lángsöm hvert var hún eða blíð. Lof sé þér, Guð! fyrir lánið allt, Lukku, vit, heilsu og frið, Lof fyrir heitt og líka kaldt, Loptið, sjó og veðrið. Þitt lof útbreiðist þúsundfaldt, Þróist og aukist við.

---

Enn er ein vika á enda kljáð Æfinnar minnar hér, Enn hefir, Guð! þín óþreytt náð Á henni bjargað mér, Að mitt hið liðna lífsins skeið Lengdist nú hana við, En eg nálægist aptur deyð, Æfinnar takmarkið. Guð minn! mér fyrirgéfðu það, Sem gjörði eg rángt og hafðist að, Illa stöðvandi óstillt géð Afstaðna lífsins tíð, Syndir aukandi sorgum með, Svívirðing, hróp og níð, Hégóma' elskandi heims og féð. Hvar [redacted] það lenda um síð?

---

Enn vill nú dvína dagsins ljós, Dimmir í veröld hér, Heimsins skínandi röduls rós Runnin í ægiun er. Myrkurin kringja hálan heim, Hylja veraldar skart, Fánýtan aud og fölan seim; Fyrnist þad skýid bjart. Svefn og skuggi mig sækja, þeir, Svipulir brædur daud-ans tveir. Skjálfandi holds vanmátt-ar mergd Min kvidir lúrlig vid, Daud-ans broddur er biturt sverd, Býdur þvi litil grid. Guds reidi teikns fárlig umferd Fréttist á ýmsa hlid.

---

Helgasta þrenning hábleſsud! Hjálpa mér framvegis, Med þinni vernd og vængja stod Varnandi', eg fái slis; Eins og þitt barnid umvafinn Adhjúkrun ná-kvæmri, Þessa nótt hvílist ugglaus enn, Önd min og likami. O drottinn, vak þú yfir mér, Svo enginn háski grandi hér. Sál min þó i þér sjálfum best Sifeldliga vaki, Ununar finni aldrei brest, Ætid

fögnud taki, Minn óvinur undir trodist Og aldrei mig saki.

---

Láttu, Gud, þína hjálpar hönd, Hvar eg teiknadur er, Nú á þessari nætur stund Nákvæma hlífa mér, Og fyrir þennan mikla mátt Ad morgni upprísa, En þig, minn Gud! af hjarta hátt Heidra, lofa, prísa; En med því endast æfi min, Og kémst ei yfir takmörk sín, Eg veit þó ekki utan sé Allmjög því nálægur; Eg girnist því og grátbæne, Gud minn almáttugur! Ad hvörki hel né saurgan sé, Svefnhöfginn þakknæmur.

---

Bevara mig frá brádum deyd, En búast lát þar vid, Ad eg veraldar allrar leid Um geng og daudans hlid. Og þegar lífid endast fer, Eg feli mína sál Af hjartans grunni, einn Gud! þér, Med óskérdt vit og mál. Gladur eg hvílast girnist nú, Gódur stadnæmist hjá mér,

þú, blídasti Jesús! breid á mig Blód-
ugan kirtil þinn, Þíns dreira merki
dásamlig Dreifist í hjartad inn. Svo
vondska satans voveiflig veiti ei áhlaupin.

---

Helgi andi! míns hjarta ranns Herra
og géstur ver, Svo eg í værdum svefn-
høfgans Syndgi ei né gleymi þér. O þú,
guddómsins þrenning þýd! Þér befala
eg nú Og um ókomna æfi tíd Allt
hvad mér léntir þú. J lífi og dauda
annast mig, Ad þá dags birtan sýnir
sig, Géti eg heill med gladværi Gøfgad
þitt mikla nafn, Þú dýrdar kóngur þrieini,
Þér finnust ei nokkur jafn; Um eilífd
lof þitt útbreidi Engla og manna safn.

---

Gudi sé dýrd, sem gaf oss nú Gódan
dag útenda, Án allra slisa adstod sú
Oss gjørdi vardveita. Heilagra engla
himnesk vakt, Herrans af skærri nád,
Hefir oss enn þá lidsemd lagt, Ad lukk-

adist allt vort ráð; Því sé dýrð, heiður, þökk og lof Þríeinum Guði, sem oss gaf Samvitsku spekt og hugar hægð, Heilbrigði líkamans; Atvinnu, frið og allsgóðs nægð Oss veitti miskun hans. Mikluð sé því og níest viðfrægð Miskunsemd gjafarans.

---

Geymdu nú mig og mína í nótt Myrkranna valdi frá, Svo að vér meigum sofa rótt, Sæll Jesús! vert oss hjá. Þá mun líkamans hvíldin hæg Og hjartans rósemd léð, Samvitskan góð og Guði þæg Gefast oss einnig með. Enn ef nótt þessi einasta Á að verða vor síðasta, Vort skal á Jesú faðmlag fest Fastlega í trúnni þá, Svo nætur hvíldin sameinest Sálunni eptirá. Gángi hvörjum sem gegnir best, Guð veri oss öllum hjá!

---

Helst skélfir veikan það minn þrótt,

Þánkarnir boda mér, Kunni daudinn ad koma í nótt Og kalla mig burt med sér, Med því ad eg veit ei þá stund, Er eg skal hverfa frá, Hvørt í vøku eda værum blund Verdur oss kallad á. Daudanum veit eg dómurinn Drottins fylgir og refsingin. Hvar er þá vørn? hvar er þá bót? Hvar fæ eg aumur bjørg? Hvad skal eg sekur segja mót? Søkin er ill og mørg. Málefnin mín svo leid og ljót Lemja mig, slæm og ørg.

---

Nú er adkomin nóttin enn, Nálægist hvíldar stund. O Jesú, gódi grædarinn! Gef þú oss væran blund. Fyrirgef illar athafnir, Endurlausnari minn! Sem braut eg á móti blídum þér, Blessadur leidtoginn! Vaki yfir mér verndin þín, Vid allri forda kvøl og pín; Guddóms skínandi geisla glans Geymi vort líf og fé; Þinn elskulegi eingla krans oss

vakti sofandi. Heilagur drottinn himna ranns, Heidur og lof þér sé!

---

Komin er yfir mig kvøldsins stund, Kom þú til, Gud! med mér, Veit þú oss, Jesús! væran blund, Vef þú mig nú ad þér. Draumóra ógn og djøfuls flærd, Drottinn, vernda mig frá, Sál minni gef þú sæta værd Sonar þíns brjóstum á. Jesús med sínum verndar væng Vaki nú yfir minni sæng, Einkum þegar ad andláts dúr Ad sígur hjarta mín, Jesú blessadur benja skúr Best grædi andar pín. Leys þú mig øllum eymdum úr, Innleid í dýrd til þín.

---

Heiminn svo kýs eg kvedja fljótt, Kom þú, ó Jesús minn! Gef oss farsæla góda nótt, Gædskunnar brunnurinn. Oss láttu hafa hvild í þér, Heims þá armædan dvín, Yfir oss vaki einglarnir, Eingin svo snerti pín. Blessadir Jesú blód-

straumar Bæti og mýki raunirnar, Allra sidast þá æfin hver, Endi med føgnud þann. O Jesús! kom og ei vid dvel, Innleid í himna rann; Mig, Jesú! þér á hendur fel Um aldur eilifan.

---

Allsvalda Jesú eingla her Yfir oss vaki í nótt, Og gefi øll hans Guds børn hjer Gløð megi hvilast rótt; Umfadmi þau og allt [redacted] kring Hans ástarskýlu hønd. Heyrdu nú, minn Gud! hvad eg sýng, Svo heptist meinin vønd, Væran gef þú oss værdar blund, Vakna lát oss á gledi stund. Stund þegar þessi úti er, Eilif gledin er vis; Veittu oss, Jesús! vist hjá þér; Vald sé þér dýrd og pris; Hédan þá deyja hljótum vér, Heimleid í Paradis.

---

Sýng þú lof drottni, sála min, Sérhverja kvøldsins stund, [redacted] medan ekki dvølin dvín, Dapur er eg í lund. Láttu

mig hvílast hægt og rótt, Herra, í faðmi þín; Umkríngi mig þín eingla gnótt Með eilífri vaktan sín; Heimilið vort og hvað, sem er, Haf, Guð, í umsjón þinni hér. Innleið oss síðan, eilíf náð! Í elsku faðminn þinn; Burt er þá horfið brixli og háð, Bót tekur endirinn. Sæti Jesús! með sigri og dáð Sýn mér þinn almáttinn.

---

Vertu hjá oss því komið er kvøld, Kristur vort náðarskjól! Myrkranna þróast mein ótøld, Mér hylja gleðisól. Jesús! þitt náðar skjæra skin Skugganum hrindi frá, Þér svo eg fái, þú minn vin! Að þreifa og skoða á. Æ! hvað þau faðmløg eru góð, Øllum eyðandi hjartans móð; Hreld nær eð sálin hallast að Heilagri þinni und, Sorganna bikar sykrar það, Særða gleðjandi lund. Hægan géf þú oss hvíldar stað Hvørja lífs mæðu stund.

---

Lídur á daginn, komid er kvøld, Kvøld-
ar vort lífsins skeid, Skeidar svo burt
hin auma øld, Oldúngis vafin neyd.
Neyd vora, drottinn! sjálfur sjá, Sjá þú til
vor í nád, Nád þína treystum eflaust á,
Alittu, Gud! vort rád. Rád, hetja,
kraptur þá ert þú, Þú ert styrkur þeim
lífa í trú. Trú vora á efstu styrk þú
stund, Stund sú oss hagar best, Best sé
þá Jesú opin und, Und sálar lækning
mest, Mest kjósum vér þinn fridar fund,
Fundid Guds auglit sést.

---

Dags stund þessi nú úti er, Er komin
nætur tíd, Tíd æfinnar svo fljótt framfer,
Fer í hønd dauda stríd. Stríd fyrir,
Jesú, þýngsta þitt, Þitt veit þú fulltyng
mér, Mér svo nær andlát mætir mitt,
Mitt frelsist líf í þér. Þér lidinn þakka
eg, drottinn! dag, Dag hvørn nádar og
geymdan hag; Haga svo þannkum mild-
ur mín, Mín verdi synd affægd, Fægd

í blóðs undum þýðum þín, Þín sé miskunnar nægð, Nægð hins góða sem skeður og skín; Skíni þér allskyns frægð.

---

Nær eg mitt höfuð hneigi ljóst Hér nú svefnværðum að, Á Jesú dreirrunnið blessað brjóst Bið eg að leggist það; En ef mitt hjarta hels við fund Hratt sundur bresta skal, Æ! lát það þá í þinni und Þýðast sá græðslu umsal; Sé það minn vegur sælu vís Sannhelga inn í paradís. Eg þín kyssi signuð sár, Sætasti brúðguminn, Yfir þó dynji dauðans fár, Drottinn! samt er eg þinn. Hljómi þitt lof um eilíf ár, ástkjæri Jesús minn!

---

Géfi oss öllum góða nótt Guð minn fyrir sinn son, Að sofa kunni eg sætt og rótt, Sú er mín hjartans bón. Veit mér að skilja vel við heim, Vini og náúnga, Og góðs árnandi öllum þeim,

Adur enn burtsofna. En þá kémur vort æfi kvøld, Ei lát oss taka makleg gjøld; Sýn oss þá vægd fyrir soninn þinn, Er sára þoldi neyd; I himnaríki, herra minn! Þá hédan førum, oss leid; Er þad vor bænar endirinn, Amen, fyrir Jesú deyd!

---

Nú er komin nætur tíd, Nádugi drottinn minn! Veit mér Jesús! hún verdi blíd Vel fyrir kraptinn þinn. Líkamann láttu sofa sætt, En sálina vaka í þér, Ad á morgun þitt nafn ágætt Eins prísi og verdugt er. En ef daudinn yfrid fljótt Yfirfellur mig þessa nótt, Minnstu þá, fadir mildur, mín Mætan fyrir soninn þinn, Ad eg sé frí vid eymd og pín, Er þad mín huggunin; Fyrir þitt blód og bitra pín Bænheyr mig, Jesús minn!

---

Þessi dagur nú úti er, Eilífur Gud minn kjær! Láttu mig hvílast hægt í þér, Hvíld mín þá verdur vær; Láttu

mig, dýrstur drottinn! hér Dauda húm minnast á, Og ad eilífdin eptir fer, Upp þegar daudir stá. Géf þú mér, Jesús, Gud og mann, Guds i ótta ad gánga fram, Svo ad eg vid þinn ædstan trón Eilífan fái sess, Fyrir Guds sonar fyrirbón, Færandi dýrdar vers; Er þad min hjartans ósk og bón, O Gud! eg bid þig þess.

---

O! þú eilífi gódi Gud, Gættu min vel i nótt, Veittu mér, hátign hábléssud! Hjálp og nád furdu fljótt; Láttu mig hvilast hægt i þér, Hægan géf sofni eg blund, Hvildu ó Gud! i mæddum mér Mina hérvistar stund. Æ! þú blessada ástin min, Umfadma mig med elsku þin, Hjúkri ad mér þin hægri hønd, Hjálpi mér hjartad þitt, Leystu af mér øll lastabønd, Lifs sólin, yndid mitt! En lofi þig apur lif og ønd, Lýdir og gjørvalt hitt.

---

# Þridji flokkur

innihelldur

## Dagleg vers.

---

Undid er stórt! þess minnast má, Mikid er reiknings tal, Dómarinn strángur þeinkir þá, Þar um hann dæma skal. Guds blód er dýrt! þess gjæta ber, Geysi þúng reidin hans, Lífid er stutt, þad vitum vér, Viss er daudinn til sanns. Helvitis pína er hørd og straung, Hér med eilífdin næsta laung. Englarnir vita ei kannské, Enn sídur nokkur mann, Hvenær ad vænta herrans sé, Hugsid um tíma þann; En í þá átt sem eikin hné, eflaust hún liggja vann.

---

Fel eg í þína fødur hønd, Frelsarinn Jesús minn! Sálu líkama einnig ønd

Aldeilis hvørt eitt sinn; Stýr þú ætíd og stjórna mér Stundir æfinnar mín, Lát mig svo geta þóknast þér, Pad er mín bón til þín. Olukku minni allri snú Til alls hins mesta, minn Jesú! Blessa þú inn- og útgáng minn Alla tíd hér í frá. Jesús, blessadi bródirinn! Bid eg mér vertu hjá; Edlist heidur eilífur þinn, Amen, halelújá!

---

Fell eg nú enn ad fótum þér, Fridarins høfdingi, Undir glæpanna oki hér Um vægd þrábidjandi, Sveimandi hér á sorgar braut Síst vil eg missa þig. Í þitt blessada ástar skaut Innlæstu, Jesús! mig. Angurfull hrópar øndin mín Eptir miskunar straumi þín. Eg sárgrátbæni svo af rót, Sonur Guds! þig um nád, Allt hvad mér gánga má hér mót Mýki þitt gjædsku ráð. Høndin þín blessud hjálpi fljót, Huggunar edli dád.

---

Augnablik hvert sem eg er til A heimsins rauna stig, Gædsku þína eg gøfga vil, Gud, og vegsama þig. Og nær mig sidan hefir hel Heimflutt i dýrdar sal, Sømu lofgjørdar vøndud vel Vers þér eg kveda skal. Náttúran hjødnud øll þá er, Umbreyting dags og nætur þver, Hjartans nýefldur kraptur klár Kynna skal verk þin mild, Eilífd gjørvalla yfir- stár Sú engla raddar snild. Hve má þó hennar um øll ár Æra þin verda fyld!

---

Min stundleg æfi þegar þver, Þrengir ad helsóttin, Veit minni sálu vist hjá þér, Voldugi Gud Drottinn! Veit mér ad skilja vel vid heim, Vini og náúnga, Og góds árnandi øllum þeim, Adur enn burtsofna, Og eg, minn Drottinn! lif sem lér, Lifa og deya mætti i þér. O, hvad æskilig umskipte! O, hvilik dýrdar vist! Þá eg [redacted] eilífd sannan sje, Son Guds, minn Jesúm Krist,

Umgirtur vegsemd eilifri Og ódaudleikans vellyst.

---

O Jesús! þá min andláts tíd Yfir mig kémur hér, Veit mér, Jesús! hún verdi blíd, Vægdu þá, Jesús! mér. Stattu mér næst í strídi því, Styrki mig hønd þín best, Endurnæri mig nád þín ný, Nær eg daudvona sjest. Ønd þá, sem gafstu ádur mér, O Jesús! taktu þá ad þér. Leid þú hana um ljóssins hlíd Lambsins í brúdkaup inn, Þar sem er eilíft inndælid Og útvaldra skarinn þinn; Heyrdu nú hvers eg bljúgur bid, Bænheyr mig, Jesú minn!

---

En þá sídasta aungvit hér Yfir mig lída skal, Og glasid lífs útrunnid er Í þessum tára dal, Drjúpi á mína aumu ønd Almættis kraptur þinn, Hér þegar slitna holdsins bønd, Hjartkjæri Jesús minn! Álíttu hjartad mædda mitt,

Mundu þá daudastrídid þitt, Þegar af engla þádi lid Þín manndóms náttúran, Láttu mig njóta nú þess bíd, Nær eg fer burt hédan. Leid mig svo inn um ljóssins hlid Í lifendra sælu rann.

---

Kom þú, ljósmódir ljúf, til mín, Lausnarinn Jesús klár! Sveipadu mig í sárum þín, Sefar þad daudans sár. Blóddropar þínir, blessud laug Burt þvoi synda grand, Fær mér í stadinn føtin þau, Fridar sem heitir band. Sálin af englum flutt sé fús Fridar í dýrdar eilíf hús, Umvafin ørmum elskarans, Engin hrygd snertir þá. O hvad sælunnar sigur krans Sífellt þar ljómar á. O hvad útvøldum er til sanns Inndælt ad lifa hjá.

---

Augunum mæni eg uppá þig, O Jesús, dýrdarhár! Blessadur kenndu í brjósti um mig Blódug fyrir þín sár, Aumum mér þína adstod veit, Ætíd þú sért

mér nær, Minnstu nú á þín mildu heit, Miskunar dýrdin skær! Veittu mér þar til voldugt lid Vel ad halda mér fast þig vid, Unn þú mér fridar eilíft skjól, Æfin þegar hér dvín, Frábær réttlætis sanna sól, Sálina geym þú mín, Leid hana inn fyrir lambsins stól Í ljósid, sem eilíft skín.

---

O Jesús, þegar megn og mál Minkar á daudastund, Hjarta mínu, sinni og sál, Svali þín blódug und, O Jesús! daudans ofbod þad, Sem af þér kraptana dró, Hrópi mér vægd í hverjum stad Og himneska dýrdar ró. Einninn bid eg þig, ó Jesú! Ad hugga þá sem gráta nú; Hvor þinn blóddropi og hrygdar tár Hrópi þeim nád og vægd, Hvort þitt kvalrædi og hörmúng sár Hrópi þeim frid og hægd, Hvort eitt þitt píslar heilagt sár Hrópi þeim dýrdarnægd.

---

Daudans bikar nær drekka eg á Daud-vona á andláts tíd, Daudi þinn Jesús dýrstur þá Dauda míns sefi stríd. Daud-ans nær ógn og ofrauner Ogna mér daudsjúkum, Og daudans myrkur ogra fer Í daudans fjorbrotum, Daudans sólfegri sigrarinn; Svefnværan gjør þá dauda minn, Farsælan dauda, Gud! mér gef, Grimmd daudans frá mér snú, Svo megi eg í dauda utan ef Upphrópa í sterkri trú: Kom þú sæll, daudi! kom, ei tef, Í krapti míns Jesú.

---

Fridar ypparsti foringinn, Fridar sem helst eg ann, Fridar krapt láttu fridan þinn Frida mig syndugan. Frid sam-vizkunnar færir mér Fridar ord blessad þitt, Fridurinn heims þó fargist hér, Frid-ar þad hjartad mitt. Fridud mun sálin fagna mín, Fridarins eilíf sól hvar skín, Fridarins þegar frægsta hnoss Fridud-um afhendist, Fridar høfdingjans fyrir

kross, Fridkeyptum í þarvist, Fridur eilífur fadmi oss Fyrir vorn Jesúm Krist.

---

O Jesú, Jesú! eg þig bid, Jesú! hjálpadu mér, O Jesú! kom og legg mér lid, Lífsstundin mín nær hver. Taktu þá ad þér málid mitt, Minn sálar grædarinn! Leid mig svo inn í ljósid þitt, Lifandi Jesús minn! Hédan gladur og fús eg fer, Frelsarinn Jesús! tak vid mér, Forleingir mig ad finna þig, Fel mig í sárum þín, Lát mig ei kanna kvala stig, Kvitta øll brotin mín; Líknsami Jesús! leid þú mig Í ljósid, sem aldrei dvín.

---

Allra sídast þá á eg hér Andláts ad gegna blund, Sé þá, minn Gud! fyrir sjónum mér Sonar þíns blódug und. Fyrir mig lagdi lausnargjald, Látinn þá hékk á kross, Gefur mig frían Guds á vald Grædarans unda foss, Mig leidi hans farsæl fyrirbón Fram fyrir lambs-

ins dýrdar trón. O Jesú! kom og ei vid bid, Innleid þú sálu min, O Jesú! kom og skjærum skrýd Skrúda réttlætis þin, O Jesú! sálar unun blíd, Utvøldum mér þá skin.

---

Allra sidast þá á eg hér Afsúpa dauðans skál, Vertu þá, Jesús minn! hjá mér, Mína annastu sál. Heilagra eingla herskarinn Hjá mér til verndar sé, Önd mína flyt i fadminn þinn Fráskilda sorginne. Hjartans sídasta hrópid mitt I hjartad inngángi, Jesú! þitt. Hjartans medaumkun heitust þín Hjúkri oss veikum þá, Hjartans andvørpin medtak mín, Mér skúfa þér ei frá. Um eilífa tíd, sem aldrei dvín, Unn mér þér vera hjá.

---

Ur djúpinu eymda, drottinn kjær! Dapur eg hrópa á þig, Kveinandi skepnu kom þú nær, Kenndu i brjósti um mig, Andlegan styrkleik auki mér Almættis

kraptur þinn, Holdsins þó kraptar hverfi hér Og hrørni líkami minn. Farsæla gefðu ending á Armæðu þeirri, er mig vill þjá, Nákvæm þín mjúkust móður hønd Minni sál taki við, Hún þegar skilst við holdsins bønd, Herra minn! þess eg bið. Þá er útendud þrautin vønd Og þrotið allt mótlætið.

---

Eilíft lífið mjøg æskilegt Eilífur gef oss Guð, Eilíf þín náðar æðsta megt Eilífan ljær føgnuð, Albjartir skínum eins og sól, Umgirdtir rósemi, Þá fyrir lambsins støndum stól Í staðføstu rjettlæti; Tímana fram svo telja skal, Tíma hvern hér í sorgardal. Þó að hérvistin þyki laung, Þverra øll hrygðar tár, Nær Guðs barna heyrum gleðisaung, Glaðir um eilíf ár, Um himna dýrðar heiløg gaung Hljómar Guðs vegsemd klár.

---

Faðir vor hæsti himnum á! Helgist þitt

nafnid bezt, Þitt eilíft ríki oss í hjá Auglýsi trúin mest, Verdi á jordu vilji þinn Víst sem á himna hæd, Gjædsku-ríkasti Gud drottinn! Gef þú oss dag-legt braud, Fyrirgef vora synda sekt, Svo sem vér þeim oss módga frekt, Inn í freistni oss enga leid Né ørvæntingar fár, Heldur frels oss af allri neyd, Al-mættis herrann hár, Vizka, makt, speki og vegsemd greid Veitt sé þér, Jesús klár!

---

Gædskuríkasti grædari minn, Guds son-ur, Jesús kjær! Huggun oss veittu hvert eitt sinn, Þá hrygd og neydin slær. Ei-lífa dýrd fyrir utan ef, O Jesús! lát oss fá, O Jesús! kom og ei vid tef, Innleid í sælu þá. Zebaot drottinn! sé þér dýrd, Sómi, heidur og virding skýrd Af øllum túngum æran mest Og eilíf vegsemd klár. Odaudleg þrenning, eining bezt, Eilífur drottinn hár! Heilagast nafn þitt hábleſsist Hér og um eilíf ár.

---

Helzt bid eg Jesús hressi mig, Heiminn nær kvedja skal, Og leidi bestan lukku stig Ur lángsömum tára dal. Andlát hans blessi andlát mitt Eydandi heljar pín, Sé svo allskonar syndin kvitt, Er sálina hryggir mín. J daudans þorsta blód hans best Brjóstinu þjáda svali mest, Gefi mér sídan gledi og frid Guds engla skara hjá Vid sína björtu hægri hlid Heiminum leystum frá; Mun svo allt stærsta mótlætid Mætastar bætur fá.

---

Þegar þú, hærsti herra minn! Hédan mig kallar á, Gef ad eg verdi vidbúinn, Vel svo sem byrjar þá. Kraptar þó dofni [illegible] dapríst mál, Dragi af heyrn og sjón, Hrópi til þín mitt hjarta og sál, Herra! þad er mín bón; Trúar loglitinn línkveikinn Láttu síst slokna drottinn minn! Öll þegar mannlig adstod dvín, O Jesús vert mér hjá, O Jesús! blessud ástsemd þín

Ad mér bezt hjúkri þá, O Jesús! tak svo öndu mín Öllum hörmúngum frá.

---

Á þig alleina er mín von, O Guð á himna trón! Og á þinn hjartans elsku son, Athuga mína bón: Meðan eg lifi lát mig hér Lof syngja alla tíð, Og sæla útför send þú mér, Síðan eilífan frið, Að eg með þér í engla hirð Eilíflegana syngi dýrð, Þitt ljúfa andlit lát mig sjá, Lofa og heiðra þig, Það sama vil eg feginn fá, O! fegurð dýrðarlig, Önd mín þig lofar ætíð þá, Amen, bænheyrðu mig!

---

Blessuð réttlætis sólin sæt, Sonur Guðs himnum á! Af miskun þinni mín vel gæt, Mig vernda illu frá, Undir gakk þú nú ekki mér, Af hjarta bið eg þig, Hörmúngin sár þá hjartað sker, Huggaðu auman mig. Blessaðir þínir blóðlæker Bezta hugsvölun veri mér, Öll sú kvöl, mæða, eymd og fár, Er þú

barst vegna min, Hreinsi gjørvoll min synda sár, Sefandi hrygd og pin, Veit mér loksins um eilif ár Unun i riki þin.

---

Nær sú adkemur óskastund, Anda skilnadar mins, Og augum sidasta ber ad blund, Brestur trú hugarins, Máttvana túngu tregast mál, Tekur ad minka heyrn, Hold er lémagna, lif og sál, Lénast ei styrkur neinn, Herrann minn Jesús! heyr mig þá, Hjartad mitt lát þér vera hjá, Adreif þad sidan, elskan gód, Med unda flódi þin, Leid þú mig rétta lifsins slód I ljósid, sem fegurst skin, Og gledinnar sætu hørpu hljód Hljómar vid eyru min.

---

Heiminum þegar fer eg frá, Fadir á himna trón! Lát mig i fridi fara þá, Fordum sem Simeón, Lát mig ei mæta, drottinn dýr! Dómi réttlætis þin,-I þinni miskun, herra hýr, Hugsadu þá til min, Fyrir þann deyd sem þoldir þú, A þinum

líkama, minn Jesú! Þegar mér fékkstu fulla sátt Föðursins hátign við, Uppegnt þó hafi eg opt og þrátt, O Guð! þitt réttlætið, Af lífs og sálar öllum mátt Um vægð þig sekur bið.

---

Lífsstundir mínar leiðast mér, Líf þetta er mjög fallvalt, Lífið margvafið eymdum er, Ei þolir heitt né kalt, Lífið til dauðans líður fljótt, Lífsháska umgirdt þó, Lífið út dregst með sorg og sótt, Samt vil eg lifa í ró, Af því að Kristur er mitt líf, Í honum eg lifi og blíf, Eg veit lausnarinn lifir minn, Líf og upprisa er hann, Lífs og dauða ber lykilinn, Lífga og deyða kann, Til lífs eilífs mig leiðir inn Í lifendra sælurann.

---

Eptir umliðna æfistund Innleiði Drottinn oss Í sannheilagra sælufund, Svo fáum dýrðar hnoss; Af er þá staðin öll vor neyð, Angist, hörmúng og pín,

Fyrir þinn, Jesús! dýrstan deyd, Í dýrdinni þá eg skín, Kórónadur vid Kristi hlid Kunnandi gudligt málfærid. O hvad gledilig unun er Ad mega Jesúm sjá! Eilífi fadir! unn þess mér Ødrum Guds børnum hjá, Ad segja og sjálfum syngja þér Sanctus og Gloriá!

---

O Gud! eg kvaka upp á þig, Andvarpid heyrdu mitt, Líti í miskun unnan mig Elskuligt hjartad þitt; Vertu mitt skjól og verndarmúr, Vegur, ljós, styrkur, hlíf, Forsvar, adstod og fadir trúr, Fullnægja, yndi, líf; Annastu mig í allri neyd, Annastu mig í lífi og deyd; Meiri legdu mig ekki á Eymdir, enn bera kann; Vertu mér ætíd veikum hjá, Þó velkist í heimsins rann; Leid mig svo sídan sorgum frá Í sælustad eilífan.

---

Andláts þá tídin yfir mig, O drottinn! kemur hér, Æ gódi Jesús! eg bid

þig, Ei vik í burt frá mér; Hjúkri mér blessuð höndin þín, Hjálpi þá náðin skjær, Hrindi frá allri hrygð og pín Hjartans unnustinn kjær, Ógn dauðans gjörir sýna sig, Sárhvass hans brodd-ur hrellir mig. Enginn má hugga heims um rann, Hver mun þá veita lið? Í fánginu trúar faðma eg þann, Sem frelsti mannkynið. Eg bið af hjartans alúð hann Önd minni taka við.

---

Æ minn Jesús! það ángrar mig, Allt hef eg vondsligt gjört, En við það hugg-ar sál mín sig, Sólin réttlætis björt, Upprunnin fögur eðla skjær, Ertú til líknar mér; Allt mitt syndagróm á burt þvær Píns unda blóðlækir. Allt mitt traust set eg uppá þig, Allt hvað vont er skil þú við mig. Um tíma og eilífð allt mitt líf Án afláts þjóni þér; Jesús! mitt skjól, mín heill og hlíf, Hjálpa þú

þar til mér, Míns viðskilnaðar korta kif, Kristur! það bón mín er.

---

Drottinn! þegar mín dauða stund Dragast vill höndum að, Géf mér í hjartað glaða lund, Gjætandi best um það: Eptir fylgir þar unun blíð, Auga sem neitt ei sá, Og ævarandi eilíf tíð, Sem enginn fullgrunda má; Eyra það heyra ekkert kann, Allan né skilja fögnuð þann, Sem mín forkláruð sála fær Sínum brúðguma hjá; Hans blessuð síðu sárin skær Sannheilög litur á, Og honum syngur ætíð nær Eilíft hallelúja.

---

Þegar að dauðans dimmu ský Dragast yfir mig hér, Sjúkdómi' líkaminn særist í, Sálin stynjandi er, Satan ákærir, syndin mörg Samvisku sturlar frekt, Enginn fær veitta bót né björg, Og bilar allt tímanlegt; Í þeim nauð-

um mér legdu lid, Ljúfasti Jesús! þess eg bid: Andláts kvalir og kvída þann, Kaldur sem daudinn ljær, Sefa fyrir þinn sárkaldan Sveita, og vert mér nær, Leysta flyt sálu í lífsins rann, Þar ljómar þín dýrdin skjær.

---

O! Jesú Kristi písl og pín, Pressandi blód úr und, Allra best svali øndu mín Á minni dauda stund; Sætt ord, er mæltir sídast þú, Seinast lát vera mitt, Ad eg af hjartans ást og trú Andlát minnist á þitt; Af fjøtrum daudans frelsa mig Fyrir þá kvøl, sem mæddi þig; Leid mig sídan med ljúfum þér, Lofgjørd svo verdi skírd Æfinlega af munni mér Mælt fyrir utan rírd; Af engla og manna øllum her Elíf þér syngist dýrd.

---

Jesús, minn kóngur, klár og hreinn! Kvølum mig leystir frá, Hann er ekki til hjálpar seinn, Helst þegar liggur á.

Feginn vil eg því fara til hans, Fallvallt er þetta líf, Utvöldum medur engla krans; Er eg þá laus vid kíf. Heilagir allir herrans þar Hefja upp gledi raddirnar. Leidist þeim ei sú lofgjörd fkir Lausnarans stóli hjá; Hjálp mér heim þángad Drottinn dýr! Dýrd þína lát mig sjá. Eilíf sæla og huggun hýr Hjartad mitt gledur þá.

---

Dagur þá lífsins dvínar minn, Og daudans kemur stund, Blídur og heitur blóddropinn, Blæddur úr Jesú und, Signadur drjúpi á sálu mín; Syndunum leys mig af, Öllum þeim fleigi elskan þín Í þitt blódunda haf. Fridi mig þá þín fyrirbón Og flytji mig svo á dýrdar trón. Er eg þá leystur eymdum frá, Og endud mín sorgar tár, Ljósid himneska lít eg á, Lausnarinn Jesús klár! Sigurhrós munum syngja þá Sælir um eilíf ár.

---

Heidrum Gud fødur himnum á, Honum sé þakkargjørd, Æ vill hann nádar augnum sjá Ut yfir sína hjørd Leidandi hana fram med frid; Frelsarans verndin blid Huggar, stýdur og leggur lid Lífs hér um stundar tid; Tekur til vara sérhvern saud, Svo hann ei kenni neina naud, Þar til hann kallar saman sitt Sínar tjaldbúdir í. Mein er þá úti, en misgjørd kvitt, Mig láttu, Drottinn, því Í þeim selskap sjá auglit þitt Og þér lof syngja frí!

---

Nær daudinn klappar dyrnar á, Drottinn, heyr hvers eg bid, Send mér á móti sjálfur þá Þitt signad engla lid. Eitt sinn eg deya eflaust verd, Endast þá neyd og pín; Reiknast má þessi føgur ferd, Ad færast í dýrd til þín. Frá útlegd heimsins erum frí Endurlausnarans fadmi í. Sólinni fegri sjø sinnum Sálin vor ljómar þá; Æ þeim eilífu

umskiptum Unni oss Gud ad ná, Sæt-
lega vér þá samsýngjum Sætast Halleluja.

---

Kristninnar blídi brúdguminn, Brúd-
guminn Jesús kjær! Kjær minnar sálar
unnustinn, Unnustinn nádarskær, Skjæra
mér nádar gledi gef, Gef þú mér þig
sjálfan; Sjálfan þig nær eg, herra!
hef, Hef eg hvad þurfa kann; Kann engin
neyd mig þvinga þá, Þá eg er búinn
þig ad sá. Fátækur komstu í heiminn
hér, Hér svo audgadir mig, Mig láttu
ætíd þjóna þér, Þér, gædskan guddómleg;
Líknadu, Jesús mildur, mér, Mér haldtu
fast vid þig.

---

Heyr nú, Drottinn, mitt hugar tal,
Hjartad mitt barmar sér, Eg kvaka til
þín úr daudans dal: Drottinn, hjálpa þú
mér! Hvert skal eg flýa? hvar er vörn?
Hvonær mun leysast eg? Sárbæni eg
heitt, því sútar kvörn Svídur mér næsta

mjøg; Upprunnin føgur ydis rós, Ísraels gledi heimsins ljós, Einn þinn blóddropi dugir mér, Daudans þá mæda er þraung. Æ min hugsvølun helst þad er, Þó hér finnist æfin laung, Mig innleidi, þá æfin þver, Í eilifan dýrdar saung.

---

Heyr nú, Gud, mína harma raust, Heyr nú, Gud, hvers eg bid, Á þér, ó Gud er allt mitt traust, O Gud, legg þú mér lid. Þegar ad enginn madur má Mér veita nokkra hægd, O Jesú, Jesú, eg bid þá, Jesú, sýndu mér vægd; Med ørmum trúar unn þú mér, Elskugi minn, ad halda þér. Fyrir mótlæti fenginn er Føgnudur himnum á, Ljómandi þegar lifum vér Lambsins hátróni hjá, Um aldir sýngja eg vil þér, Amen, halelújá,

---

O Jesú gef mér anda þinn, O Jesú vert mér hjá, O Jesú sálar munnur minn Minnist þig jafnan á; Láttu mig,

Jesú lofa þig, Lid veittu Jesú mér, Elskadu Jesú auman mig, O Jesú treysti eg þér. Vertu mitt Jesú voldugt skjól, Vermi mig Jesú eilif sól; Leystu mig Jesú løstum frá, Svo ljómi eg í dýrdinni, Lausnarinn Jesú lát mig fá Lif, frid í gledinni; Heidur sé Gudi himnum á Og hjartans þakklæti.

---

Þegar ad eg skal falla frá, Frelsarinn Jesú minn Vertu med þina hjálp mér hjá, Himneski lækniринn. Lækna þú mína særda sál, Svo ad hún verdi fri; Þá likhaminn drekkur daudans skál, Dýrd hana flyt þú i; En á medan þú lid mér ljær, Léna mér styrk þinn, Jesú kjær, Heimsins ad fordast synda sid, Sem ad mér eykur mein; Umkringi mig á alla hlid Þin engla vaktin hrein; Heyrdu nú Jesú hvers eg bid, Hátign þin prisist ein.

---

Þegar ad heimi fer eg frá, Frá allri mædu og sút, Sút og armæda þrýtur þá, Þá lidur strídid út; Utvøldum hjá mér, Gud minn! gef, Gef þú um eilifd vist; Vist þessa fyrir utan ef Efalaust eg gyrnist: Gyrnist þér, dýrdar kóngur klár! Klár mega þjóna laus vid fár. Fárid er þrotid eymda ótt, Otti, bøl, hrygd og þrá; Þrái eg jafnan fund þinn fljótt, Fljótt megi komast á; A mér hrini þin gædsku gnótt, Gnótt dýrdar, amen, já!

---

O Jesú! gef þú, ad mín trú Eblist í sómanum, O Jesú! þínum ad mér snú Audlitis ljómanum, O Jesú! vert mér ætíd hjá, Yfirgef þú mig ei, O! Jesúm treysti eg eflaust á, Eins hvort lifi eda dey, O! Jesús bæti allt mitt ráð, O Jesú! kom med þinni náð, O Jesú! þegar enda skal Mitt ángurfulla skjá, O Jesús burt úr eymda dal Önd mina

leidi þá, O Jesú! lát mig eiga tal Útvøldum þínum hjá.

---

Jesús! þín mildin gædsku gjørn Gef mér, þá hédan fer, Sem þín útvalin onnur børn, Eg verdi í dýrd hjá þér, Lofandi þig um eilíf ár Í æru og vegsemd há, Sigri hrósandi, kvittur, klár, Kórónu lífsins fá; Æ þegar kemur andláts stund, Önd minni vísa þann samfund. O Jesú! lát mér lukkast vel Lífs høfn ad finna þar, O Jesú! þinni ást eg fel Allar þær naudsynjar, O Jesú! leid, þá hætt er hel, Til himneskrar farsældar.

---

Ljósid eilífa lýsi mér, Ljúfasti Jesú minn! Þegar mín endast æfin hér, Eg fel í fadminn þinn Andar og holdsins adskilnad, Eilífur Drottinn trúr! Bid eg þér sé allt befalad, Bjarg mitt og verndar múr! Leys mig af allri sút og sorg,

Sídan inn leid í þína borg, Þar sem er eilíf nádarnægd, Nægd allskyns fagnadar, Eilíf gledi og yndis hægd Hjá útvøldum drottins þar. O Gud! veit mér þá ædstu frægd Ad erfa stad sælunnar.

---

Blóddreyfdi Jesú blessadi! Blódsveita láttu þinn Svalalynd vera sálunni, Þá sorg mædir huga minn; Blódrunni Jesú! bænheyr mig, Blessa mér sorgir þær Allar, sem kvøldu og þjádu þig, Þegar mig hrygdin slær; En þá fullkomnad er mitt líf, Eymd, mæda, hrygd og daudans kíf, Medtak þá, Jesú! mig til þín, Meinin þá grædast øll, Í þá sælu er aldrei dvín, Útvaldra lofsaungs høll, Gladvær sýngjandi sálin mín Svo ad þig lofi snjøll.

---

Úr djúpinu til þín, lífsins lynd, Lángmæddur hrópa nú, Klagar mig løgmál, lemstrar synd, Líka er veik mín trú; Sat-

ans þrátt pílur særa önd, Svikull er heimurinn, Margföld heimsins vélrædi vönd Vandrædin auka stinn. Í þessum andans aungvitum Eg tæpti trúar hönd-unum Á þér Jesú, elskhugi minn! Eilífs lífs kraptur, ljós, Mót óvinunum ókvíd-inn, Vid undanna þinna rós; Í dauda mig lífgi daudi þinn, Svo dýrdar Guds hreppi ljós.

---

Af öllu hjarta eg bid þig, O herra Jesús kær! Adstod þín gód og innileg Ætíd ad sé mér nær; Veit ad eg elski einan þig Um mína lífsins tíd. Blídi Gud minn! bevara mig, Svo burtvíki þrauta stríd. Gef þú eg ratad geti án kífs Gegnum öræfi þessa lífs, Svo, þegar lífid úti er, Eg megi sælu fá Útvöld-um medur engla her, Um eilífar tídir þá Sætlega jafnan sýngi þér Sanctus og gloriá.

---

Hørnúnga ský þá hreisa sér Hvørs-kyns sem vera kann, Vertu þá, Jesús minn! hjá mér, Mér sýn þig nádugan. Øll sú pína, sem þoldir þú, Þýdasti herra minn! Í himininn yfir oss hrópi nú Hvør einn blóddropi þinn Um fyrir-gefníngu, frid og hlíf, Føgnud, sælu, og eilíft líf. Allt er þá fengid allt er bætt, Allt þad sem girnast má, Allt þad sem hafdi ádur grætt, Allt snýst í gledi þá, Allt ok verdur þá sykur sætt Sýng-jandi hósíanná.

---

Drottinn Jesús! sem dóst á tré, Dag og nótt vak í mér, Hjartad bædi og sálin sé Sívakandi í þér; Mædu þó reyna megi eg hér, Mig huggi ordid þitt, Ad líf kémur nær ed þetta þver Þúsund betra enn hitt. Lát þad svo vera laung-un mín, Ljúfi Jesú! ad koma til þín. Sídast nær dauda svefn ad fer, Sálunni bjarga þú Fyrir blessadar þínar blód-

under, Blídasti minn Jesú! Lofi þig, herra! allt hvad er Eilíflega og nú.

---

Umfram allt annad andvørpum, Eilífur Gud! til þín Um fyrirgefning á glæpunum Grædarans fyrir pín. Drottinn! minnstu þá dýru neyd, Dó hann saklaus á kross, Þá voldug þín hátign var oss reid, Vingadi hann þig vid oss; Fullnægju gjørdi fyrir oss hann Og fekk oss barna rétt eilífan. Hvenær sem kvedjum heiminn hér, Hønd þín oss veri hjá, Í frelsarans vernd svo fáum vér Og fadminum deyja þá, Og lifa honum líkt sem þér Landi útvaldra á.

---

Medan eg hjara hlýt á jørd Hérveru stutta tíd, Þér vil eg færa þakkargjørd, Þrenningin guddóms blíd! Allt fyrir gott, sem unnir þú Af þinni gædsku mér! Ljúfasti Drottinn! lát mig nú Lifa sem kristnum ber, þad sem er eptir

æfinnar Efl mig í betrun lifnadar, Svo reiti eg ei til reidi þig Med raungu framferdi; Líf mitt þá endast leid þú mig Í ljóssins herbergi; O herra! þér sé æfinlig æra, lof, þakklæti.

---

Kenni eg trúar auga enn Ad hjarta, Jesú! þín, Glansar þar nægsta nand-bjørgin Nádþyrstri øndu min; Hana lækuadu auma á Einum blóddropanum; Í þér, Drottinn! hún dafnar þá Dýrdar ad tímanum. Naski svo ekkert andar mein Athvarfi því á nokkra grein. Þad-an kom lífid, lækningin, Og lausnin þeim fjøtur bar. Høndin þín, Jesú herra minn! hjálprædi besta var, Manna þá veiki mátturinn Mér kunni ei duga þar.

---

Sanna ljós heimsins, sæll Jesús, Son fødur ljósanna! Í því ljósi býr ædstur þú, Engin sem manneskja Getur til kom-ist, Minnstu mín, Mitt hér upplýstu brjóst,

Er þú með feður æðstum þín Eilíft líf víst til bjóst. Herskrúða ljóssins miðla mér, Svo megi eg vera ljós hjá þér. Láttu mig gánga ljóssins stíg, Ljós mitt þá aðrir sjá, Ljós þinna orða leiði mig Ljósi stundligu frá, Ljósi fegri svo lofi eg þig Ljósanna hæðum á.

---

Mjóðri oss Jesú rauða blóð, Sem rann af hans síðu und, Sé það vor allra svölun góð A síðustu dauða stund. O Jesú! píslar øll þín sár Og allt þitt blóðdropa hrun, Sérhver þín mæða og sorgartár Sé það vor afsøkun. O Jesú! þig vor ormædd ønd Umfaðmi þá með trúar hønd. Andláts sveitinn þinn, ó Jesú! Afhreinsi vora synd, Andláts þorstinn þinn, ó Jesú! Æ sé vor svala lynd, Andláts stríðið þitt, ó Jesú! Íklæði' oss dýrðar mynd.

---

Eg fel í hendur sérhvert sinn, Sætasti

Jesú! þér, Inngáng bædi og útgáng minn Og allt þad mér tilheyrir. Himnesski fadir! höndin þín Hverja stund, nótt sem dag, I vöku og svefni veri mín Og verndi vorn allan hag. Blessadur Gud! þín blessud nád Blessi nú allt mitt efni og rád; En þegar lífid endast á, Og æfistundin dvín, Lofadu mér þig sjálfan sjá, Son Guds! í ríki þín. Ósk þessi verdi amen, já. O Jesú! heyr til mín.

---

Angradur kém eg enn til þín, O minn herra og Gud! Syndanna byrdi margföld mín Mér gjörir ófögnud. Vertu nádugur, minn Gud! mér, Minnstu á soninn þinn, Hvör til kross dauda hlýddinn þér Hópinn fridkeypti sinn. O herra Jesú! árnan þín Allra meina sé bótin mín. Gef ad eg hafni synda síd, Setjandi alla von Upp á þitt blessad líknar lid og ljúfa fyrirbón, Þar til mér eilíf gefast grid Hjá Guds og Lambsins trón.

---

Guds Födurs vernd og visdóms rád Vel hefur alla tíd Fyrir mér sjed med dýrri dád, Dýrdligust gjæskan blíd. O! hvad mikil sú miskun hér, Mér veitt af stórri nád, Mitt í syndunum mest hún er, Meir enn nokkur fær tjád, Mér, sem Gudi braut mest á mót, Minnsta gjörandi yfirbót; Angrar mig þó ad ei eg get, eda kann synd vid sjá, Þegar þad góda mest eg met Mér er sem hrundid fá; Samt eg allt traust á son Guds set, Sem aldrei bregdast má.

---

Jesú réttlætis kvistur klár, Konúngur dýrdarskjær! Lækna mín daudlig synda sár, Sál mína endurnær, Samvisku orma sárin leid Sárin þín lækni best; Mitt brjóst er þjád af margri neyd, miskun þín ábreidist. Pínna blódunda ljúfust lind Lífgi mig auma skepnu kind. Daudans þá tíma dregur ad, Drottinn! vertu mér hjá, Farsældar lát mig finna stad Frid-

landi þínu á. Unn mér ad hreppa athvarf þad, Amen, hallelúja!

---

Þolinmótt hjarta eymdum í, O Jesú! gef þú mér, Raunfrekan þar eg byggi, bý Burt rek mig ei frá þér. Yndæli gott í undum þín Ond minni hugsvali, Ranglætis gnægdum gleym þú mín, Gud, í Jesú nafni! Sjá þú, tídum eg tárum eys, Tak mig ad þér og hédan leys. Einmana fugli adstod tjá, Í þínum fadmi vef, Nær eg fæ land úr sorgar sjá Sælu eilífa gef. Drottinn Jesú! þér einum á Allt mitt hjartans traust hef.

---

Allra sídast þá daudans dúr Dynur á hjartad mitt, Hjálpi mér þeirri hættu úr Hjartablód, Jesú! þitt. Drjúpi þad mína ondu á Í þeirri stóru neyd; Æ! gef þig mætti sjálfan sjá, Sem þoldir krossins deyd; Hondin trúar þér haldi fast, Herra! lát mig ei vanmegnast; Sorg er

þá bætt en sælan vís, Sýngur þar laus við sár: Sigur, vegsemd, lof, sómi, pris, Sé þér, lausnarinn klár! Þeirrar farsældar kjør eg kýs Með Kristi um eilif ár.

---

Óhræddur deya vil eg víst, Vær svefn því dauðinn er, Eilifan dauða eg óttast síst, Ábati er dauðinn mér. Sonur Guðs hefur dauðann deyðt, Deyandi á krossins tré, Og dauðans remmu allri eyðt Afl dauðans linandi; Dýrmætur er því dauði minn, Dauði! hvar er nú broddur þinn? Jesú því dauðans dauði er, Dauðans brodd vann til sanns, Í mínum dauða það mig styrkir, Mitt líf er í valdi hans, Hann mig úr dauðans hættu ber Heim til míns føðurlands.

---

Leys mig í friði þjón, Guð! þinn Með þínu orði burt, Afgángur verði góður minn, Geti það allir spurt. Af hjarta feginn héðan eg fer, Hafa mín augu séð

Hjálprædi þitt í høndum mér, Heiminn því gladur kved. Sjálfur tilreiddir þetta þú Fyrir þjóda allra von og trú, Eitt ljós heidnum ad lýsa vel, Sem lifa á mirkum stad, Og til dýrdar Israel, Því af honum fæddist þad; Undir þess skin og skjól mig fel, Skiljumst vid aldrei ad.

---

Vond þá stjúpmódir verøldin Verdur mér hversa frá, Blídur minn sálar brúdguminn! Bjód þú mér fadminn þá. Vidskilnadar mér veit á tíd Verdi eg med rænu og fró, Drottinn! farsæl mitt dauda stríd, Til dýrdar leid er mjó. Vardveit mig lífs á veginum, Vertu mitt ljós í daudanum, Glada upprisu gef þú mér, Gud minn! af þinni nád. Blóddropinn hver sem í mér er Efli þinn prís med dád. Lof sé þér [redacted] allar aldir, O Jesú! meyar sád!

---

Mótstattu, Guddóms þrenning þýd!

Þeim, sem ofsækja mig, Af því þinn máttur alla tíð Auglýsir, Guð minn! sig; Stoðar eingum þér standa á mót, Styrkir það mína trú, Vertu mín heill og hugarbót, Hjálpa mér, minn Guð! nú; Hrekkvísan óvin hrek frá mér, Hrökkur hans máttur ei við þér. Er eg kvisturinn á þér einn, Ágæta lífsins tré, Máttu því ekki, minn Guð hreinn! Missa þó veikur sé, Vertu mér ei til verndar seinn Vor Guð og hjálpari!

---

Andvarpa eg og bljúgur bið, Blíður Guð! miskun þín, Að þitt himneska hjálp-ræðið Hreinsi svo öndu mín, Að ekkert hefndar illsku gróm Aumum mér finnist hjá, Heldur þolgæðis blíða blóm, Best sem þér geðjast má. Háðúng og spott, þó meinið mér Margvíslegt og skap-raunir, Hógværð þú minn hjarta gef, Haturs eg forðist lyst, Hvort vaki eður

sætt eg sef, Sálin mín upporfist Til elsku og fridar; eg þá hef Eilifa hjá þér víst.

---

Í forsjón þína og fødur hønd Fel eg nú, Drottinn! þér Líkama minn med lífi og ønd, Lán allt og heilsu kjør; Mitt svo eg akti starf og stétt, Stjórnadu minni lund, Hér med einnig mig haldi rétt Á hrygdar og gledi stund. Kristni-hald mitt, kærleik og trú Med krapti þínum, ó Jesú! Auka jafnan og efla virdst, Uppá þad sál mín fróm Dýrdar-leg sái fyrir þér birst, Þá fer þú ad halda dóm. Kom, herra Jesú! kom sem fyrst, Klárt gjør allt synda gróm.

---

Daudans þegar eg nálgast nótt, Nád-ugur vert mér hjá, Med bærilegri bana-sótt Benda virdstu mér þá. Í fadmi sælum ad sofna þín, Sæti fadir! eg kýs, Óttalaus er þá øndin mín, Og eilíf gledi vís, Sídan í Lambsins ljóma klár Lofi

hún þig [redacted] eilíf ár, Þú sem að allt með orði ber, Einn Guð og þrenning há! Samhuga allir syngjum þér Sigurvers himnum á. Valdið þitt dýrð og æran er, Amen, halelújá!

---

O þú verndari veraldar, Veruligt á og ó, Uppruni lífs og endingar, Endalaus kraptur þó, Minnstu þinn trygða eyð upp á Úthafin synda gjøld, Nær þú oss alla nemur frá Nálægri sorgar øld. Græt oss ei lengur, Guð minn trúr! Gefðu oss hægan andláts dúr. Skugganum hrindi skoðunar ljós Þíns skæra réttlætis, Láttu oss verða lystirós Lausnarans Jesú Krists, Glæsta með eilíft gleðinnar hrós Guðs barna kjøryndis.

---

Náð þín, minn Guð! mér nægir vel, Nauðstøddum líkn mér sýn; Eg þann mann harla hólpinn tel, Sem hjá er verndin þín, Því mér breiskum þinn andi

er Anægjandi, Guð minn! Getur ei Satan grandað mér, Gjörir það kraptur þinn. Viðhaltu minni veikri trú, Voldugi Guð þess bið eg nú. Heilagi andi, hjálpin mín Hughreistu jafnan mig! Eyðist þá nevð og andar pín, A raunum verður svig. Um allar aldir öndin mín, O drottinn! lofi þig.

---

O Guð! nauðstaddra einka traust, Alittu mig í náð, Grátbeiðni minnar gegndu raust, Gjörstu mitt hjalpar ráð. Loforð þitt sannast lát á mér, Lifgar það öndu mín; Æ sjá, hún biður eptir þér, Aðstoðar leitar þín. Hjarta míns veri hærsta ró Herrann Jesús, sem fyrir mig dó; Blóð hans afmái brotin öll, Blessunar dýrsta hnoss, Gjörvöll synd-anna græði spjöll Guðs sonar dauði á kross; Leiði síðan í lífsins höll Lifandi Jesús oss.

---

Odaudleg sé þér æra og prís, Endurlausnarinn kær! Sigur, makt, speki og sómi vís Sanntjádur fjær og nær, Af øllum túngum árla og síd Aukist þér þakkargjørd Engla og manna alla tíd A himni og líka jørd. Lofi þig allt hvad lifir og er, Lofi þig sérhver vera i mér. Astgjafir heilags anda þíns Upplýsi hjartad mitt Af nægdar gædum sætleik síns, Svo er mér rótt; og fridt Ond leidi á stundu andláts míns J dýrdar ríki þitt.

---

Gled þig, mín sála, Guds í nád, Já gledst af hjartans rót, Því hann fyrir Jesúm hefur þér tjád Harma gjørvallra bót, Leyst frá myrkrum en ljósid skært leidt fyrir augu þín, J hverju þér sé ætíd vært Jnn til þess lífid dvín. Hans ástar hjarta er opid þér, Ut þadan fljóta lækirner Huggunar, nádar, hjálprædis, Himneskrar rósemdar, Arfleifd er sú æru-

sess Eilífrar Guds dýrdar, Blídlundud skaltu bída þess Bæn ýdkandi trúar.

---

Rétti hjálpari, herra Gud! Hvers vald ad eilíft skín, Mér sem lofadir líkn af nád, Þá leita færi eg þín, Sjá, nú eg kem og klappa upp á, Kraminn [redacted] and-anum, Svölun girnandi nokkri ad ná Af nádar brunninum, Ad sál mín verdi sæl og hress, Sjálfur kantu ad orka þess; Ómögulegt þvi ekkert er Almætti þínu hjá, Eg veit hver sem þú adhlynnir, Aldrei fordjarfast má, Ærukjör þau eg óska mér Af þinni miskun fá.

---

Nægir mér þá, svo neitt ei kann Nokk-urn tíd bresta mig, Hafi eg ætíd hand-visan Til hjálpar, drottinn! þig. Líf mitt og sál þó lýist hér Og láti krapta sín, Huggun míns hjarta og hlutdeild er Heilög trúfesti þín, Hugsandi ei [redacted] heimsins par Hégómligar vellystingar,

Þvi innra mannsins eptirbid, Öll lyst og stundan min Hnigur ad þér og falar frid, Fagurt þar dýrdin skin, Hjá Jesú Kristi hægri hlid, Hverfur þá mæda og pin.

---

Dásemdar verkin dirfa mig, Drottinn! sem gjørdir þú, Blidan framar ad bidja þig, Bæn mina álit nú, Ad minn vel-signir allan hag Eilifri blessan med, Svo lifs farsæld og lukku hag Láng-gædan fái eg sjed. Athafnir minar, áform, rád, Ætid stjórnist af þinni nád. Öllum meinslisum varna vid, Vernd min og hyrdir trúr, Eins vertu, Gud, á alla hlid Öruggur styrktar múr, Fyr-ir þins engils fylgdar lid Frelsa mig vanda úr.

---

Dygda féssjód og dáda safn, Drottinn, eg beidi þig, Fyrir mins Jesú frida nafn Fjølga þú æ vid mig, Andi heilagur allrafyrst, Unn mér og veit af nád, I hjarta minu hafi vist, Hreint þar tilbúi

sáð, Andi Guðs ótta, góðsemdar, Geð-prýði, ráðs og vizkunnar, Andi hreinlífis, ástsemi, Æru, þolgjæðisins, Andi ljúflætis óstolti Afvendi brøgðum hins, Andi blessaðrar bænrækni Bljúgur sé til drottins.

Dagur þá lífsins endast á, O Guð minn frelsari, Lending himneskri lát mig ná Í lífs eilífs sælgæti; Ógn dauðans kann mér ekkert grand Auka né fordjörfun, Helguð sál min á lífsins land Leidd af Guðs englum nun, Og í hans hendi um eilíf ár Ætið forvarast blessuð klár, Oðauðleg, glaðvær; ekkert þar Angur kemur né pín, Brúsandi mótgángs bilgjurnar Burt eru, og sorgin dvín; En æra og vegsemd allskonar orðin þá hlutdeild min.

O þú heilagi, heilagi, Herra Guð sannleiksins! O þú, minn Jesú! ástsæli, Einka von mannkynsins, O þú, huggunar andi

kjær! Um eilífð blessaður, Guðdómleg vera góð og skjær, Guð einn og svo þrennur! opið lát vera eyra þitt, Andvarpið svo að kunni mitt Í Jesú nafni álítast, Svo opt eg fram það ber, Haltu með mér í hendur fast, Hvað sem mitt geð særer, Æ minn Guð, lát það ei bregðast Eilíflega né hér!

---

Treysta vil eg á trygðir þín, Trúfasti Guð drottinn! Að allan minn veg og efni mín Umsjái kraptur þinn, Rósemda svo eg ráfi ei Réttum takmörkum frá Út í skaðsemdar villu og vei, Vandræði stór né smá. Vísa mér, herra! veginn þann, Og virstu að gjöra farsælan, Sem þín hefur elskan ákvarðað, Eg skuli gánga frí; Gef mér eg ætíð gjöri það Guðs sonar nafni í, Hvað hér í lífi hefst eg að Heill fylgi blessuð því.

---

Eg veit minn lífir ljúfur og trúr

Lausnarinn himnum á, Sá sem armædu allri úr Einn frelsa kann og má, Afþerrar gjørvøll augna tár Ástúdleg høndin hans, Gledinnar mun um eilíf ár Aldreji verda stans; Þegar sú kemur þæga stund, Þann girnist sál mín dýrdar fund. O Jesú kom og innleid mig Í unun og farsæld þá, O Jesú leyf mér ad sjá þig, En ei þér skiljast frá; O Jesú! þér sé eilífleg Æra og vegsemd há.

---

Náð, kraptur, hetja, høfdingi Heilagi fridarins, Eilífur fadir og frelsari Fortapada lýdsins, Medtaktu þessa, blídur! bæn, Sem ber eg fram í trú: O þú Guds dýrdar ímynd væn, Adstodadu mig nú Hjá þínum fødur himneska, Hann svo mig virdist álíta, Ad hvad sem eptir ordi þín Eg hefi bedid hér, Hagkvæm þad verdi hlotnan mín; Háleitt lof og þakkir Eg skal þá hvert er aldrei dvín Um eilífd færa þér.

---

Tímanum hef eg öllum eydt, Ut gefid herrans pund, Og í syndum mig sjálfan þreytt Sannlega hverja stund, Frá einu illu í annad fljótt Anad sem rádlaus mann, Ur einni villu í adra skjótt, Ólukku veginn fann; Heldur seint ad því hef eg gád, Hlaupnri tíd verdur ekki nád. Drottinn! hjálpa mér veikum vid, Voludum, aumum hér, Finndu mér besta frelsis lid, Forgleymt þó hafi eg þér, Brunnur miskunar gef mér grid, Gleymdu samt ekki mér.

---

Ofur stór þó sé illgjörd mín, Enn fleiri sandkorni, Meiri og stærri er miskun þín, Minn Gud og frelsari! Þú hefur mína bresti bætt, Brotin öll forlíkad, Hrygdardrykk vín í snúid sætt, Svalalynd er mér þad; Smánar kórónа af þyrnum þín, Þad [redacted] nú dýrdar krýning mín, Hrelling, kvöl, skjálfti og hrygd á þér, Harmkvæli, písl og sár, Hug-

svölun, bót og björg er mér, Balsam og smyrsli klár, Dauði þinn líf mitt eilíft er, Upprisu vegur hár.

Allra skepna þá aðstoð dvín, Aðstoð, Guð! vertu mér, Frá vinum fara verð eg mín, Vin minn! tak mig að þér; Eyrun þá heyra ekki fá, Eyrað þitt heyri mig; Augun nær kunna ekki að sjá, Önd mín horfi á þig; Túngan þá ekki talar neitt, Trúað hjarta þig elski heitt. Dauðans þá köldum sveita út slær Sérhvern um liminn minn, Bjargi mér, Jesús, bróðir kær! Blóðugur sveitinn þinn, Lútin sú helst mig laugað fær, Lífs jurta brunnurinn.

Dauðans þá ógnin, Drottinn minn! Döpur mig sækir heim, Fylgir henni mörg freistíngin, Forðaðu mér við þeim, Gef mér örugt og einbeitt geð, Alhuga að treysta á þig, Í stríði því mér stattu með, Styrk þú þá auman mig, Minnstu

þá á mig, góði Guð! Gleymdu mér ekki í þeirri nauð. Allra síðast þá öndin mín Yfirgefur holdið, Heilöguſt blessuð hönd-in þín Henni þá taki við; Burt, laus við synda brotin sín Blífi hjá þér í frið.

---

O Drottinn! eg bið aumur þig, O Drottinn! bjarga mér, Góður ei yfir-gefðu mig, Guð minn! eg treysti þér. Hvort sem þú lætur dúr eða deyð Draga mér krapta frá, Vertu mín bjarta lífs-ins leið, Lampinn, sem rata eg á; Hvort sofum eða vökum vér, Voldugur Guð! tilheyrum þér. Þú ert lifendra og liðinna Guð, Lof sé þér alla tíð, Þú ert lifendra lífsins brauð, Lofliguſt þrenning blíð, Þú gefur lífs og liðnum auð, Ljómandi eining þýð!

---

Allir hlutir á alla lund Allstaðar fjær og nær, Í öllum stöðum Um alla stund, Allt hvað Guð hugsað fær, Vegsami, dýrki og þakki þér, Þrenning Guðs há-

loflig! Heidri og gøfgi medur mér, Mildin sjálf eiliflig; Minútu hverja margfaldist, Miklist þitt nafn og vidhaldist, Æfinlega sem aldrei dvin Eflandi jafnan sig; Heilagi andi! hjálpin þín Huggi og gledji mig, Allar stundir svo øndin mín, Ædstur Gud! lofi þig.

---

O! hvad fánýtan hefur róm Holdsligt verunnar glis, Mannsins lífdaga besta blóm Blaktir sem lauf og fis. Hvar fyrir safna þeinkir þá Þannig auranna gnótt, Því holdid vesta heiminum frá Hédan burt víkur fljótt, Forgengiligt og fánýtt vallt, Fullt af hégóma er hér allt. Jesú! í dauda unn þú mér Eilífu lífi ad ná, Jesú! mig hægt á høndum ber Í himna sælu þá, Jesú! svo ad eg sýngi þér Sanctus og Gloriá!

---

Avi! Avi! minn auman hag, Eg játa svoddan frekt, Eg hef minn sérhvern æfidag Alid í synda sekt, Mér sjálfum verst-

ur orðinn er, O Drottinn! náða mig; Hjálp þína veittu mildur mér, Að megi eg svo elska þig; Gef eg svo lifi hér í heim, Að himnaríkis ylma seim Í dauða hljóti öndin mín, Með unaðsemd og frið; Mitt hjarta lángi heim til þín, Hér til veittu mér lið, Þar allskyns eymd og þrautin dvín Hjá þinni hægri hlið.

---

O Guð! sérdeilis er mín bón, Upplýs þú hjartans ker Á mér þínum aumasta þjón, Að eg vel treysti þér, Og öllu framar elski þig, Ástundandi sem ber; Yfirgefðu því ekki mig, Er mín von byggð á þér; Í þína mildu maktar hönd Mitt hús, börn, kvinnu, eign og önd, Æruna, góz og embættið, Eg befel hvert eitt sinn, Vertu mín hlífð og hjálpræðið, Hjartkæri Jesú minn! Illt svo að fái ekkert sked, Engill lið veiti þinn.

---

O Drottinn! aumur eg fyrir þér Eg stend grátbænandi, Mínar syndir og mis-

gjördir Miskunin forláti Drýgdar á móti mildi þin, Med hugsan, verk og ord, Um undanfarna æfi min, Er þad stærsta misgjörd; Minnstu á þina miskun því, Minn Gud! eg hrópa enn á ný: Lát ei réttlætis reidi slag Reka út barnid þitt, Sem treystir Jesú hjálpar hag, Ad hennar brot sé kvitt, Og í hans ben-jum enn í dag Afbrotid hylur sitt.

---

Mitt ángrátt hjarta andvarpar, O þú mildi fadir! Ofbod syndanna ofþjakar, O Gud! Líkna þú mér, Fyrir mergd þinn-ar miskunar Misgjördir afmá þú, Ad eg betur enn ádur var Ástundi hlýdni og trú; Tilreid mig svo í heimi hér, Sem hæfir ad vera um eilífdir, Nær þig í ángist ákalla, Alít bænarhróp mitt, Fjærri sé þér ad forláta Forlíkad barn-id þitt, Fyrir þinn soninn sætasta, Sem útgaf blódid sitt.

---

Sé þér um aldir sómi og dýrd, Sann-

leiksins andi hreinn! Af hjarta og munni hvern dag skýrd, Huggun þú sendir einn; Þín hefir smurning þá víst sönn Þræga fødurnum gjørt, Sem fyrir allan veikleik vorn Var offrud skær og bjørt. Kom þú, herra! í húsid þitt, Helgadu saurgad brjóstid mitt, Svo ad eg megi sýngja pris, Syni, fødur og þér, Bædi þá sólin sest og ris, Svo sem réttkristnum ber; Fram yfir allt eg fund þinn kýs, Frelsarinn Jesús! mér.

---

O Jesú! blessud árnan þín, Umsorgun veiti mér, Svo ángrad hjarta og øndin min Ord þau heyri af þér: Vertu hughraustur, barnid blidt, boda eg sannan frid, Af þvi þin misgjørd øll er kvitt, Eg er þitt réttlætid; Guddómsins andi eilifi! Æ sé minn lærimeistari, Bjargandi øllum breiskleika, Burt taki úr hjarta min Samvitsku vonda synd-

anna, Svo eg í ljósi þin Forsjáll kunni að framgánga Fram til þess æfin dvín.

Vendir minn hugur veröld frá, Vill hana leingur ei, Umgeingni hafa himnum á Hann girnist uns eg dey; Aungva hér niðri finnur fró Fyrir hentuga sig, En andleg bæði og eilíf ró Á hæð er fáanleg; Þángað mitt tilflugt Tek því allt Með trausti því, sem er óvallt, Að fyrir þinu frelsarans Faðir himneskur mér Fyrirgefi minn glæpa fans, Gamall og nýr sem er, Nafnið svo lofi lausnarans Lángar um eilífðir.

## Ekkju Sorgarvers.

Flý eg nú til þín faðir kjær! Forsvarið ekknanna, Munaðarlausra skjöldur skær, Skapari mannanna, Réttu mér þína hjálpar hönd, Hjálparlaus því eg er, Miskuna dapri minni önd, Mig alla gef eg þér, Föðurlaus blessa börnin mín,

Bjargi þeim alþekt miskun þín, Fadir þeirra en forsvar mitt Fárádrar ekkju sért, O Jesú! fyrir ángrid þitt Alit minn rauna snert, Séf eg frá allri kvalning kvitt Kunni þig lofa bert.

---

## Sama efni.

Eg veit þú telur tárin mín, Trúfasti lausnari, J adgæslurikri umsjón þín Öll þau velgeimandi, Ekkjuna í Nain áleitst þú, Eins muntu gjøra enn, Hrygd minni allri, herra! snú, J himneskan føgnudinn; Gott verdur mér þad gledi vin J Guds riki sídar, hvar ei dvín Føgnudur allskyns farsældar, Pá fæ eg ad líta þig Ásamt minum, sem eru þar Ádur mettandi sig Af nægdar gjædum gledinnar, Gjørir þad hugga mig.

---

## Á Sóttarsæng.

Allrar líknar uppsprettan skær! Ástríki Jesús minn! kom þú ljúfur í náð

mér nær, Nákvæmi hjálparinn! Legdu nú þína læknis hønd Líf mitt yfir og sál, Sorgandi virdstu sefa ønd, Er sjálf-[redacted] þér þykir mál, Ofreyndu ekki mitt nú megn, Minnar bænar andvørpum gegn, Byrg ekki þína miskun mér, Þó móti þér syndgadi, Þínir dýru blóddrop-arnir Dylji mitt lasta ve, Láttu mig deya og lifa þér, Lausnarinn trúfasti!

---

Almáttugi eilífi Gud! Æ sé þér dýrd og prís, Miskunin þín er marghátttud, Og mér frambodin vís, Ránglæti mitt sem æfi ár Eykst þar til lífid dvín, Jesú blóds unda kraptur klár Komi vid sár-in mín; Láttu mig eptir þyrsta þér, Þess bid eg nú og óska mér, Svolun lát mína sálu fá, Sætasti Jesús minn! Í andar-slitrum innstu sjá, Nær ønd skilst og líkhaminn, Í daudastridi mig dreifist á Dreira blóds vøkvinn þinn.

---

Allra sídast þá aungvit hér Yfir mig

lída skal, Og glasið lífs útrunnið er Í þessum tára dal, Dreyptu á mína aumu önd Almættis vökvann þinn, Hún þegar skilst við holdsins bönd, Hjartkæri Jesú minn! Alíttu hjartað mædda mitt, Mundu þá dauða stríðið þitt, Þegar af eingli þáði lið, Þín manndóms náttúran, Lát mig þess njóta nú eg bið, nær eg fer burt héðan, Leið mig svo inn um ljóssins hlið Í ljómandi sælu rann.

---

O Jesú blessuð edla lind! Alblóðugan þig sje, Friðþægi mig þín fegurst mynd Við föðursins réttlæti. O! þinn blóðfaðminn, bæn og tár Og brunnopna síðu und Breið þú yfir mín synda sár Síðast á dauða stund. Heilagur Guð vor! heilagur, Heilagur er þinn manndómur, Skrúða réttlætis skeinktir mér skínandi krossi á, Hár nú og síðar hann eg ber Hátróni himum hjá; Síðan lof eilíft sýng eg þér Sanctus og Gloriá.

---

Allra sídast þá andardrátt Ormæddur dreg eg hér, Láttu, Drottinn! þinn mikla mátt Máttugan verka í mér, Svo hjartans innstu hræringar Horfi beint uppá þig, Þegar þú krossins byrdi barst Blódugur fyrir mig; Blessadur gef þitt bænar óp Og blódfórnar þinnar dýrsta hróp Hrópi miskunar eyra í Eilífrar hátignar, Svo sál min verdi af fári frí, Fridlandi nái þar, Er sadning fagnadar nóg á ný Næ eg til eilífdar.

---

Hédan í burt med fridi eg fer Fyrir Guds dýra nád, Hann hefur audsýnt mildur mér Miskun og hjálparrád, Svo skilst eg laus vid hrygdar hag, Horfin er mótgángs tíd, Fagna eg mínum frelsis dag, Fengin er nádin blíd. Kved eg svo hús og heimkynni, Hér med frændur og ástvini, Í gegnum daudann greidt eg fer gladur í dýrdar vist, Önd min hjá Gudi sýngur sér Sanctus med allri

lyst, Sæl og blessud mín útför er Í þér, Minn Jesú Krist!

---

O Jesú sæti! eg þig bid, Jesú! heyr þú mitt kvein, Jesú! sál minni legdu lid Og lækna mín synda mein, Heyrdu Jesú! eg hrópa á þig, Hjálpadu, Jesú mér, Annastu Jesú auman mig, O Jesú! treysti eg þér, Vertu minn, Jesú vernd-ar múr, Vernda mig naudum øllum úr, O Jesú! gef ad andinn þinn aldrei mér víki frá, O Jesú! sálar sadningin, Sigr-inum lát mig ná, Unn mér, Jesú! Eg þrællinn þinn Þér skíni um eilífd hjá.

---

Kóngur Jesú! sem krossinn barst, Kóng urinn blessadi, Kóngur dýrdar! sem kval-inn varst, Kóngs nafn þitt heidrad sé, Kóngs med tign þeirri krýna vann Kónga [redacted] heimsins lád, Kóngur sem aftókst kvala bann, Kóngs þess vér heidrum nád, Kóngur ert yfir køldum heim, Kóngi allir lofsýngi þeim, Kóngur yfir hvad

kallad er, Kóngur frá upphafs tíd, Kóng þann til hjálpar kjósum vér, Kóngur ert árla og síd, I Kóngs dýrdar salinn komi oss hér Kóngs nád þín harla blíd.

---

Son Guds Jesúm eg sannan bid, Send þú mér anda þinn, helst þá eg skal hér skilja vid, Og skoda frelsara minn, Andláts þad verdi ordid mér, ádur enn dvínar mál: Hjartans fadir! í hendur þér Hreint fel eg mína sál. A upprisu deginum unn þú mér Arfleifd ad ná med sjálfnm þér, Og sýngja Drottni [redacted] eilíf ár Æru, vald, þakkir, pris, Þig ad vegsama, þrenning klár, Þettad eg fyrir mig kýs, Amen, já, þad um alldir hár Æ sé þér dýrdin vís!

---

I Guds nafni madur gá ad þér, Grát þína mørgu synd, Vid fallvalta glisid heimsins hér Hjartad eg ofmjøg bind;

vertu strídinu vidbúinn, Vak þú sem forsjál mey, Þeink þú á dauda sérhvørt sinn, Syndga muntu þá ei, Í hreinni ydran þú hvørn dag vak, Herskrúda Drottins á þig tak, Þá muntu heya herlegt stríd, Himneskum sigri ná, Eptir armædu enta tíd Afløgd verdur þér þá Kóróna lífsins føgur og fríd Fødurlandinu á.

---

Eigum vér eptir endad stríd Í von-um fødurland, Sæinkjørin svo fáum fríd Fyrir útlegdar stand, Hørmúng-anna í heimi hér Hjartad ei minnist þá, Angri því skýfar út frá sér Eilífdar gledin há, Satan né hold ei freistad fær, For-geingnar eru plágur þær, Sál og líf-hami syndaveik Sjást ei vid dýrdar prís, hafa fullkominn heilagleik, Huggunin sú er vís, Sídan hjá lífsins unum eik Í himins Paradís.

---

Daust á ad snúast vatn í vín, Vor þeg-ar hérvistin Fullkomnad hefur forlog sín, Fyrri sem grættu kinn, Lýir þá hvorki líf né sál Lengur útlegdin hørd, Harma-tølur og hrygda mál Heyrist ei lífs á jørd. Heilagur, heilagur, heilagur, Hljóm-ar sá dýrdar lofsaungur Eilífdarinnar endalaus Um árin sífeldt þar; Sérhver útvaldra leiki laus Lídanir vid þær bar; Huggun sú øll, er hjartad kaus, Hrell-ingum frávisar.

---

Hugur minn allur heim til þín Horf-inn er, Jesús minn! Andlegra þrauta þjádur pín Þreyir sá himininn, Hvar þín unadsemd endalaus Anægju veitir mér, Hjartad er laungum kæra kaus Kramid af ángri hér; Eptir þeirri eg blessan bid Bidjandi þig á hvørri tíd, Ad hedan synda sorgum frá Sál mína leysir þú, Svo þér hún lifi sjálfum hjá,

Sæl i fullkomnri trú; indæl verdur, þad ætla má, umskipta gledin sú.

---

O Jesú Jesú Jesú minn, Jesú mitt hjálpar traust! Helgastan fyrir heidur þinn Heyr mína bænar raust: Adstoda mig vid andar strid Óvinum hennar gegn, Vel ad standast þá voda hrid, Veittu mér trúar megn. Rádar høndin þín nógu sterk Nidur fjandmanna brjóti verk, Þeirra svo hrapi bigging banns, En bættan eg finni mód, Og sýngi fagran sigurdans Sídan vid kjørin gód Medur hirdsveitum himna ranns Hólpinn fyrir þitt blód.

---

(Í hallæri.)

Líkssins í mædum, líkssins Gud! Líknadu mønnum nú, Angrinu skjæda í føgnud Aptur ad nýu snú, Aumkva gjørdu vort rauna rád, Réttu þad, Drottinn! vid, Mitt í reidinni minnst á nád, Miskunar brúka

sid, Allra misgjørda illan hátt Oss fyrirgef og tak í sátt; Hallæris létt svo hardri pín, En huggun blída greid, Veit ad hvor gráti syndir sín, Er sárri valda neyd. Til Síons dýrdar sælu þín Sídast oss alla leid.

---

Púngum eg veltist þrautum í, Þad veitstu Drottinn kjær! Blód fyrir Jesú bjarga því, Blídur mig endurnær; Hans fyrir sár og hjarta flód, Herra Gud! vægdu mér, Sorganna allan mýktu mód, Medan eg töri hér; Bjarga mér Jesú! bródir minn, Blódsveita dýrastan fyrir þinn; En þegar dvínar æfin mín, Innleid í dýrdar sal, Aflidin er þá eymd og pín, Ekkert mig hrella skal, Í eilífri sælu eg þá skín, Útvaldra heyri tal.

---

## Enn fremur nokkur missiraskipta, hátída- og helgidaga, kvøld- og dagleg vers, med ýmsum løgum.

---

### a) I Utgaungu Sumars.

Lagid: Lofid Gud! Lofid hann hver sem kann.

Sumar tid Sæl er umlidin nú, Blessud blíd, Hagstæd og holl var sú, Lífs og sálar gædi gód Gafst øss, ó drottinn! Øll þín verk um fold og flód Fundu því vottinn. Þakkar fórn Þér viljum færa, Þín ad stjórn Þeigin ástkæra Anda vorn Vann endurnæra Heilsu med og láni lífs. :,:Omælanleg øll sú nád Er, Hallelúja.:,:

---

### b) Jóla vers.

Med sama lagi.

Hefjum nú Hátídar saungva dans, Af því sú Er bodud kyni manns Fréttin gód, ad fæddur sé Frelsarinn blídi, Er sitt fyrir blód, Af syndinni og samvisku

stridi Leysti oss, Lét sig því festa Upp á kross Angistar mesta, Sælu hnoss Svo allra besta Aptur keypti aumum heim. :,:Elskum, lofum, heidrum hann Med hjarta og túngu.:,:

Lagid: Ris upp Drottni, dýrd!

Sú klárasta sól af Sions dýrdar hæd Er nú upprunnin Adams børnum hagstæd, Hjartans huggun finn, Hennar lýsi þar inn Geislar skínandi, Gud lofadur sé minn, Daudans faungum fæst Fyrir píslar hris Opnud ádur læst eilíf Paradís; Bethlehems bjartur ljómi, Barnid, Jesús frómi, Heim leysti, Hans lof himin og jørdin rómi.

c) Nýárs vers.

Lagid: Lofid Gud! Lofid hann hver sem kann.

Ár í sæld Endar nú þjóð [redacted] lønd, Náð ómæld Nidur frá Drottins hønd Yfir streymir oss á jørd, Angurs ver

stridi, Hressa menn og hvorskyns hjørd Hagkvæmdar tidir. Lofum Gud Lifs fyrir mæti, Hann fögnud Hugann umbætir, Mannsøfnud Med eptirlæti Gædsku sinnar gledur dátt. Verøld øll til veg-semdar Verkum hans lýsi, Allar heims og eilifdar Aldir hann prisi.

---

Lagid: Allir dagar eiga kvøld [redacted] sidir.

Gud nýára Gefi oss eptirlæti, Geym vid sára Neyd á bedi og sæti, Ad hin sára Augurtára Amabára Oss [redacted] brár ei væti.

---

## d) Á Uppstigningardag.

Lagid: Lofid Gud! Lofid hann hver sem kann.

Uppstiginn Aptur til himins er Lausn-arinn, Er leid i heimi hér Hardan dauda og kvøl á kross, Svo keypti til handa Fødurs nád og ástir oss, En Adams fallgranda Yrdu fár I fögn-ud snúin, Og eptir ár Æfinnar slúin,

Sæla klár Sé fyrir búin J himnariki lífs vid ljós. :,:Eilíf, eilíf, eilíf víst Er, Halelúja.:,:

---

## e) Á Hvítasunnu.

Med sama lag.

Huggarinn, Heilagur andi, Gud! Hjørd-[illegible] þinn Himneskan gef føgnud, Upplýs, hreinsa, helga sál, Henni gef vilja, Háleit þín og heiløg mál Til hjálpar sér skilja Um fødurs rád Mót fallsyndar voda, Um sonar dád Oss til adstoda, Um þína nád, Þetta sem bodar Allri þjód um allan heim. :,:Gjøldum þér fyrir gjørning þinn Gott Halelúja.:,:

---

## f) Á 9. Sunnudag eptir Trínitatis.

Lagid: Dagur er, dýrka ber.

O Jesú! Ad þér snú Anda vorum, Hann svo vaki Og vara taki Tímans vitjunar Þinnar þar Þú nær heldur

Með helgan róm Hærsta dóm, Gjørðir geldur.

---

Lagið: Lífs reglur hollar heyrið menn.

Tímanum vara tøkum á, Tímann Guð meðan lér, Tímann sparar því tign hans há, Tímann að rækjum vér; Í tíma þar að tøkum gá, Tími lífs fyrr enn hver, Tími sæld rara tér oss þá, Tíminn um eilífðir.

---

### 7 Viku kvøldvers.

### Á Sunnudags kvøld.

Lagið: O drottinn alsvaldandi.

O drottinn allsvaldandi! Alla hluti sem gjørir vel, Gjæt vor í nótt við grandi, Geymda í þinni tjaldbúð fel, Miskun á Minnstu þína, Mønnum þá Byrstu auðsýna, Lát oss hjá Ljósið náðar skína.

### Á Mánudags køld.

Enn er umliðinn dagur, Ekki þann fremur sjáum vær, Ytist vor æfi hagur

Endingu sinni nær og nær; Gef því vér gát á tøkum, Gud! og hér til þin kvøk-um, Svo hjá þér Sofum bædi og vøkum.

A Pridjudags kvøld.

Drottinn! sem dimma lætur Deginum eptir fylgja nótt, Ad oss nú gefdu gjætur, Og geym svo blunda megum rótt, Øll-um frá Vernda voda, Vertu oss hjá Til ad-stoda, Og unn ad sjá Aptur morgunroda.

A Midvikudags kvøld.

Í nótt, sem yfir stendur, Audmjúkir bidjum Drottinn Gud! Legg þínar líknar hendur Líf vort yfir og gef føgnud, Svo ángist þá Engan þreyti, Oss í frá Neyd vardveitir, Og vekir þá Verøld dagur skreytir.

A Fimmtudags kvøld.

O Gud! vor gódi herra, Gud sem ei-lífa heldur trú, Fyrirgef vort hid verra, Vid þig forlíkta blessa þú, Skada ver út og inni; Øndu, fjer, Hlut, minni Felum vér Forsjón gjørvallt þinni.

## Á Føstudags kvøld.

Fadir! ó fadir náda! Fadir vor! sem á himnum ert, Einvaldi lífs og láda, Líknsamur bidjum hjá oss vert, Værd í nótt léna lífi, Svo lúnir rótt Hvíldir blívi, Bøl og sótt Burt þitt vardhald drífi.

## Á Laugardags kvøld

Vikan er vel umlidin, Vér því gladværir prísum þig, Gud vor! sem gafst oss fridinn Og gjæfu kjørin þóknanleg, Lofid þér Lýdir vanda, Lúki þér Pad vor andi, Og eilífdir Í Fødurlándi.

---

## Kvøldvers.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Einn er dagur æfi minnar Enn þá lidinn kvøldi ad, Nægstu Jesú nádarinnar Notid hef eg í allan stad, Heilsu og líf mér hélt nú vid Høndin þín med dýrsta frid; Allir kraptar øndu minnar Efli prísinn dýrdar þinnar.

---

Med sama lagi.

Hærsti Drottinn hjálpar mildi! Í hønd farandi nætur tíd, Med hjúkrun ædstu og hlífdar skildi, Hjástod veiti nád þín blíd. Fadir! í þína fridar hønd Fel eg mína þjáda ønd, Mitt sér Jesús mál ad taki, Miskun Jesú hjá mér vaki.

---

Med sama lagi.

Nád þú, Jesú! æfi alla Um minn hag sem líkar þér, Nær sem eg þig einn ákalla, Opna líknar skjól þitt mér; Lát mig finna fridar slód Fyrir þitt úthellta blód, Unn mér takmark rata hid rétta, Ríka dýrdarhnoss uppspretta!

---

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hvør sem kann.

Vært og rótt Veit oss ad sofa nú Þessa nótt, Þýdasti minn Jesú! Blessi mig þín miskun mæt Meinin burtdrifi; Heiløg þrenning hýr og sæt Hlíf sálu og lífi; Høndin þín, Herra minn gódi! Eydi þín

Og andarmódi, Svo sálin mín Sætt lof þér bjódi; Heidri þig gjørvøll heimsins þjód, Lofi þig allt hvad lifir og er, Minn lausnarinn gódi! Lofi þig allt hvad lifir og er, Minn lausnarinn gódi!

---

Lagid: Í Babýlon vid vøtnin straung.

Smásaman tæmist tíminn kifs Og tára minna fjøldi, Einn hefur dagur einn míns lífs Endast med þessu kvøldi. Sídasta lát þú svefndúrinn Sætastan verda, Jesús minn! Á brjóstum blessud-um þínum, Og eptir minn erfidis dag Eilífan gef mér gledi hag Í Abrahams fadmi fridum.

---

### Dagleg vers.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug og sál.

Hørmúngin þegar hjartad slær, Hrópa eg til þín, Jesú kjær! Veittu þá minni sálu svar, Sem hana þreytta vid lífgar; Holdid þó typta þóknist þér, Þad má

til besta verda mér, Kjærleiks merki þitt krossinn er.

---

Lagid: Uppá fjallid Jesú vendi.

Lífsins fyrir lidnar stundir, Lofadur vertu, Drottinn minn! Verndan þinna vængja undir Verid hef eg [redacted] hvert sinn; Þínum eptir þrái eg fundi, Þú mig leid í himininn.

---

## Andláts vers.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

O Gud! nær daudans dimmur blær Dregur sig minu lifi nær, Rétt mér þá fadir þína hønd Og medtak [redacted] miskun mína ønd, Svo eg lifi af eymdum frí Eilífu þinu ríki í.

---

## Andvarps vers.

Lagid: Lífs reglur hollar heyri menn.

Æfin [redacted] heimi medan mín, Minn Drottinn, vara skal, Hag minn [redacted] geymi hjástod þín Á heimferd [redacted] tára dal; Ond-

in svo gleymi ángri sín, Nær endar daga tal, Burt úr andstreymis allri pín Innleidd í dýrdar sal,

---

Lagid: Mørg er þridja.

Angurs tidir Allar loksins þverra Eptir strídid, Drottinn Gud, vor herra, Oss mun kjæta Yndid bæta, Og øll sem græta, Þrauta tár af þerra.

---

Lagid: Hver sem ad reisir hæga bygd.

O Jesús, hjartans elskan min, Af øllum hug þig beidi, Ad heims í gegnum háska pín Hønd almáttug mig leidi, Og alla mína æfi braut Yfir sérhverja lífsins þraut Loksins til lukku greidi.

2. Ekkert af øllu utan eitt Anægir minu sinni, Þetta ad Guds vináttan veit Vard mér af lidan þinni; Med heidur, frid og himna ljós Hressist eg nær þá gledirós Sýnir þú sálu minni.

3. Önd mína, líf og allt mitt rád Í umsjón fel eg þína, Veittu mér aumum vernd og nád, Veika trú lát ei dvína, Gef þú mér traust vid dauda og dóm, Í dýrd hjá þér med eilíft blóm Svo fái eg sæll ad skína.

---

Lagid: Guds Son í grimmu daudans bønd.

Drottinn minn gódur, gef eg þér Gjørvallt mitt líf og efni, Bevara mig og blessa hér Bædi í vøku og svefni, Athøfnum stjórna øllum mín, Ad lifi eg eptir vilja þín; Líf eilíft Gud mig láti fá, Halelújá.

---

# Þridji flokkur,

innihaldandi

**Kvøld vers**

út af þeim þremur

Hugvekju-Fædíngar-og

Passíu Sálmaflokkum.

---

## a) Ut af þeim 50 Hugvekjusálmum.

1.

Lagid: O, Gud heilagi, herra minn.

Fyrirgef Gud misgjørdir mín, Med hverjum styggt hef hátign þín, Svo vel í dag sem sérhvert sinn, Svefn í nótt virdstu blessa minn.

2.

Lagid: Sjádu og hugleid sála min.

Ihugan kvala og ángist þín Til umvendunar sálu mín Leidi lausnarinn mætur, Øllum mér slisum varna vid,

Veit blessan og þitt engla lid, Og gef oss gódar nætur.

3.

Lagid: Syndugi madur, sjá ad þér.

Ydrun Gud hjá oss uppvek þú Avortum medur sinum, Hlýsi oss øllum hjálp þin trú Vid hvørskyns fári og pinum.

4.

Lagid: O Jesú, nafn þitt ylmsætt er.

Ylmsætt nafnid þitt, O Jesú! Er vort frelsi og huggun trú, Þvi bidjum þig, vor Jesú! I nótt vernd þinni ad oss snú, og vert oss Jesús Jesú!

5.

Lagid: Drottinn eg aumur er.

O Gud! i hjarta min Uppvek trú hreina, Nád, hjálp og nálægd þin I nótt lát mig reyna.

6.

Lagid: Allur syndugs manns sómi.

Hvert skal eg herra leita! Hræddur af synda pin, Blódsins bjargskoran heita,

Blessada Sonar þin, Hæli er og huggun min, Athvarfid þad alleina I nótt mig láttu reyna, Hvild gefst þá hæg og fin.

7.

Lagid: Pá herrans Jesú barda pin.

O Jesú! sár og undir þin, Oll forþenusta dauda og pin Er min hjálp og endurlausn trú, Aungvu þarf eg því kvida nú, A þessu traustid øruggt hef, Ohultur því i nótt eg sef.

8.

Lagid: Gled þig min sál og gjæt þú ad.

Skjærasti Gud! þá skoda eg fer Skøpun og frelsun þina, Eg sje þú hefur elsku á mér Og girnist velferd mina. I svoddan von og traustri trú Til sængur vil nú gánga, Englanna filking ad mér snú, Ei kann þá mædan stánga, Heldur hvild hæga eg fánga.

[illegible]

Lagid: Ris upp, réttkristin sála.

Elskunnar sonn uppspretta, O fadir

sæti! gef þína gjæðsku rétta, Svo grundad gjæti, Að eg umfram allt annað Elski blessaðan þig, Svo fæ eg í nótt sannað, Svefnværð mín er rólig.

10.

Lagið: O, hvað mikil er miskun sú.

Drottinn Jesú! eg þakka þér, Það við Guð afrekaðir mér Frið með forþénan þín, Í nótt, hjartans ununin mín, Oss forði við slisum og pín.

11.

Lagið: Mildi Jesú, eg minnist nú.

Syndanna þúnginn þjakar mér, Það veitstu, Jesú góði! En frá kvöl þeirri eg keyptur er Með kvala þinna flóði. Í því trausti legg útaf mig, Engla þín fylking volduglig Hrindi frá hvörskyns móði.

12.

Lagið: Upp, upp, mín sál.

Rétt trúar skart, Eðli og art Auk hjá mér, minn frelsari! Svo tállaust þér,

Pad veittu mér Þjóni medan eg hjari. Vardveitslu, frid, Nád, likn og lid Láttu mig í nótt reyna, Lof dýrd sé þér, Þú léntir mér Lifid og trúna hreina.

13.

Lagid: Bú þig sál min, bidlar til þin.

Æ! kom mér nær, O Jesú kjær! Unnustinn sálar minnar, Um þessa nótt, Um þessa nótt, Eg flý nú fljótt Í fadm miskunar þinnar.

14.

Lagid: Látum oss nú, min ljúfust børn.

O sæti Jesú! úngbarn best, Í asnastalli sem hvildest, Hvild i nótt blessa mildur min, Mig lát hvilast i fadmi þin.

15.

Lagid: Eg boda ydur, engill tér.

Þin manndóms tekning, minn Jesú! Mér þad afrekad hefur, Ad vid Gud sættur er eg nú, Alla blessan þad gefur. Á hans miskunar ørmum skjótt Eg

vil því hvílast þessa nótt, Engin þá eymd mig vefur.

16.

Lagid: Eitt gestabod mjøg mikid þó.

Heims vellyst þá lát hata mig, Himneski Gud! þess bid eg þig, Sem [redacted] í syndum vefur; En gef sárlángi øndu mín Aptur [redacted] nádar máltid þín, Blessun gjørvalla er gefur. Gud minn! þræl þinn Vernda í nótt Frá voda og sótt, Svo værd eg finni, Um eilífd þín aldrei lofgjørd linni.

17.

Lagid: Hygg þú ad sál mín, hvad þad er.

Osk mín þad, Gud minn gódur, er, Ad gjørvallir skírnar áverter Skjært á mér mættu skína. I nótt láttu þinn engla her Oss taka í vøktun sína.

18.

Lagid: Hvør sem ad hold mitt etur.

O Jesú! elskan hýra, Eilíft lof færi eg þér, Sjálfur gafst sadning dýra Til

sáluhjálpar mér, Helgast þitt hold og blód, Enn bid eg ástsemd þína, I nótt virdst lid mér sýna, Hvild gefst þá harla gód.

## 19.

Lagid: I Kristi kvøldmáltid.

Med sjálfum þér, sæll Jesú! Sál vora mettar þú, Bidjum [redacted] nótt vér nú Nád þinni ad oss snú.

## 20.

Lagid: Hvør sem ad herrans hold og blód.

Hjálpa mér Jesú, herra minn! Holds og blóds þins þá neyti, Svo vel prófadur sérhvørt sinn Sadningar þeirrar leiti, Overdugleika allan tak I burt frá sálu minni, I nótt sjálfur yfir mér vak, Engin svo neyd mig finni, Þín aldrei lofgjørd linni.

## 21.

Lagid: Sjá þig, min sál, [redacted] kring.

O Jesú! uppfør þin Ond svo tilreidi min, Ad sækja eptir kynni [redacted] himnum

návist þinni, Vernd þin nú værd mér magni, Vegsemd þin aldrei þagni.

22.

Lagid: Þá vor herra til himna sté.

Heilagi andi! huggun trú, Hjálp og nád þinni til min snú, Vertu í nótt mér velkominn, Verndi mig guddóms kraptur þinn.

23.

Lagid: Geym ad i tæku tómi.

O Gud, eilífur fadir! Æfinlegt verdi lofid þér, Ad þú mig innplantadir I vingard þinnar kristni hér. Er eg svo einn vínkvistur A því sanna víntré, hvort ad er Herrann Kristur. Hvad kann mig þá vont ské? I svoddan trú og trausti Til sængur legg mig nú, Grædarinn gæzku hrausti, Greidist þér vegsemd trú.

24.

Lagid: Ef þú, sál min! útvalning þin.

Gud minn fadir! eg þakka þér, Þad mig

útvalid hefur Til eilífs lífs, Án eymda kífs, Alla þad huggun gefur. Öfluga trú Mér inngef þú, Eg svo sameinast gjæti Fast vid þig, fadir sæti! En ef þad skér, Sem opt til ber, Af lífsins veg Ad villist eg, Veittu þad aptur snúi, Hvíldar nú til Eg hallast vil, Hjá mér þín adstod búi.

25.

Lagid: O! hvad bæn mannsins öflug er.

Mildasti Gud! eg þakka þér, Pad aumum lofad hefur mér Med bæn vid þig ad þreyta, Líka heitid ad hvers eg bid, Og hvad þú sjer mig þurfa vid, Pad viljir víst allt veita. Æ! gef þú nád og andann þinn, Ad eg rétt kunni, drottinn minn, Þig einan ad ákalla. Í Jesú nafni nú eg bid: Nótt þessa virdst mér sýna lid Og afmá ógn gjörvalla.

26.

Lagid: Sjá hér Guds miskun, sála min!

O Gud! sem lætur engla þín Í heimi

veg vorn greida, Og hættulaust frá hvors-kyns pín Til himnaríkis leida, Lát þessa sømu nú í nótt Nákvæma vernd oss sýna fljótt, Eingin þá eymd kann meina.

27.

Lagid: Tak þig í vakt, þú veslug sál.

Mildur Gud! gef mér varast vel Vondsku fullt djøfuls svika þel, Hann svo aldrei úr høndum þín Hrifsa burt kunni sálu mín, I nótt sem alltíd endrarnær Ásókn hans forda, drottinn kjær!

28.

Lagid: Lífs reglur hollar heyrid menn.

Lífs reglur gódar, Gud minn, mér Gefdu ad stunda vel, Dygdugt líf svo framdragi hér, Og deyi ad saki ei hel. I nótt blessudum eg nú þér Efni mín gjørvøll fel, Miskun þína ef mér veitir, Mig þá fullsælan tel.

29.

Lagid: Hvør [redacted] þad hugsa vildi.

Høndin þín, Gud, mig geymi, Gáleysi

hrind burt frá, Veit mér í vondum heimi Varfærlega framgá, Ognan virdst alla taka Í nótt frá hvílu mín, Og vel yfir mér vaka Vernd medur engla þín.

30.

Lagid: Frelsarans er framferdi.

Þinn dygda feril fróma Feta gef, Jesú, mér, En heims illan ósóma Ad varast svo sem ber. Eg bid ástsemi þína Í nótt hjá hvílu mín Vaka og vöktun sýna, Veitist þá rósemd sín.

31.

Lagid: Heyr, min sál, hvad þinn herra tér.

O Jesú! lát þú ætíd mig Adhyllast mest blessadan þig, En mér sjálfum afneita. Um þessa nótt veit adstod þín, Ad í þér vaki sálin mín, Svo skal hún sífelt breyta.

32.

Lagid: Hvar viltu, sál mín, huggun fá.

Í heims hjegóma ei lát mig, Eg beidi

þig, ó Jesú! Yndis leita, En i blessudum undum þin Öndu gef min Hafa rósemd hagneyta, Því ef eg er Aheingdur þér, Ókvidinn þá sætt sofa má, Þú kannt mér vøktun veita.

33.

Lagid: Hvad sem þú mann vilt hafast ad.

Veit mér, Gud! allri athøfn i, Eg gjæt ad því Samvizku hafa hreina, Ef á dóms degi ógnarlig Aklagar mig, Hjálp fæ þá hvergi neina. En sé hún góð, Þá missi ei móð, Gladur þá vil Gá hvílu til, Lidsemd þin' lát mig reyna.

34.

Lagid: Vird þú fyrir þér, ønd min auma.

Himneski Gud lát hata mig Hofmód og drambsemd ljóta, En litilætis arka stig, Upphefd svo mætti hljóta. Virstu i nótt mér vera hjá Vardveislu medur þinni, Svo frid eg finni. Eg er fullviss, ad ekkert þá Ama kann sálu minni.

## 35.

Lagid: Sáluhjálp manns, sem augljóst er.

O Gud! veit mér, eg þig bid, Aunægju stunda besta, En aura safnid aldrei vid Med ágirnd hjartad festa. O minn fadir, sýn adstod mér, Aumri barnskepnu þinni, Vernda í nótt frá voda og sótt, Vak yfir hvílu minni.

## 36.

Lagid: Osaurgud elska ekki má.

O Gud! gef ad øll illska þver Ut af slokni í brjósti mér, En sanna elsku, ást og trú Aptur þar tendra virdist þú; I nótt mér virdstu vera hjá Og venda burt allri þrá.

## 37.

Lagid: Hreinlífi hann skal stunda.

O Gud fadir eilífi! Ohreinleika sem hatar brest, Adstod þin [redacted] mér hlífi, Af þvo saurlífis kámid vest, En út af øllu hjarta Adhyllast láttu mig Skírlífis blóm-

id bjarta, Best sem ad gledur þig. Í nótt virstu allri venda Ognan frá hvílu min. Lát mig svo hjá þér lenda, Loks þá hérvistin dvín.

## 38.

Lagid: Settu, min sál, í þánka þér.

Hugfesta gefdu, herra, mér, Hversu mitt líf fánevta Mædufullt og óstødugt er, Eg svo ad kunni leita Unadsemdar þér einum hjá; Í nótt varna vid hvorskyns þrá, Virdst mér rósemd veita.

## 39.

Lagid: Sál min! elskadu ekki heitt.

Hugleida gef mér, herra minn! Hvad hégómleg sé verøldin, Ad hana ei eg ræki, Umfram allt þetta aptur mig Akta, og virda blessadan þig, Svo mest eptir þér eg sæki. Í nótt virstu mig, elskan min, Ormum vefja miskunar þín; Engin þá grandar ángurs pín.

## 40.

Lagid: Sannkristin sál, þad sómir þér.

Freistingar nær ed þókuast þér, Þýdasti Gud, eg reyni hér, Auk mér þá orku stinna, Lát mig hugleida ad eptir á Allmarga gagnsemd verkad fá, Ef næ þær yfirvinna. Eg bid, Legg lid Mér í nótt, Svo fái fljótt J fadmi þínum Hvíld væra, sviptur hverskyns pínum.

## 41.

Lagid: Min sál med þøkkum þigdu.

Þitt, minn Jesú! þolgjædi, Þess bid eg hvørt eitt sinn, Minnar sé þolinmædi Mætur grundvøllurinn; Þig einan eg á-kalla, Adstod í nótt mér sýn, Af øllum fyrir alla A øllu leidstu pín.

## 42.

Lagid: Nær mun koma sú nádar stund.

Hugga lát mig þad, herra minn! Hversu eg kann fyrir styrkleik þinn Til lykta stødugt standa J sannri ydran, ást og trú, Auk mér til þessa fulltyng nú Med

adstod heilags anda. Gud minn! Gud minn! J nótt mig, Þess eg bid þig, Virdstu ad þér taka, Ekkert kann mig þá uppá saka.

43.

Lagid: Væntu ▪ daudans, vinur kjær!

O Gud! gef þeinkja ætíd mér A minn dauda í veröld hér; Óvissu heli og allri pín J nótt oss fordi gjædskan þín.

44.

Lagid: Æ, kristin sál! umhugsa fyrst.

O Gud! ef missi eg ástvin minn, Athuga lát mig, þad hann finn Sídar í dýrd þér sjálfum hjá; Sef eg nú fullviss þar upp á.

45.

Lagid: Þá Kristur kemur.

Þú, Drottinn dýri! Dómarinn skíri, Sýn mér fulltíngi A sídasta þíngi, Hjá hvílu minni Halt nú vernd þinni, Þitt lof ei linni.

46.

Lagid: Ei máttu, sál min! elska dátt.

O Gud! sárlánga æ lát mig Eptir dýrd himna ranna, En hugleidandi hvad hé-gómlig Hérvistin sé mannanna. I nótt sem ætíd endrarnær Adstod sýn þú mér, fadir kær, Frid svo eg fái kanna.

47.

Lagid: O drottinn alsvaldandi!

O! dýrd ósegjanlega I himneskum dýrd-ar sal, Æ ad eg án alls trega Ødlast kynni þitt gæfu val; Pad, Jesú! Virst mér veita, Verndan nú Sýn hagneyta, I svoddan trú Sængur vil eg leita.

48.

Lagid: Eilift lifid er æskilegt.

Lát mig hugleida, herra minn, Heidur og sóma þann, Sem eg skal fá, nær innkominn Er í himnanna rann, Engl-um þin og útvoldum hjá Um eilifd eg gista skal, Med eigin augum þig sjálfan sjá Og sífelt þitt heyra tal, O drott-

inn! þessa unn þú mér, Um það nú fullvíss sofa fer. Varðveit mig öllu illu frá Í nótt og hverja tíð, Verndan þinni mér haltu hjá, Hvíldin svo veitist blíð. Greiðist þér, þrenning guddóms há, Gott lofið ár og síð!

## 49.

Lagið: Hver kristin sál hugleiði.

Hugfesta gefðu, herra, mér, Hvað vítis kvölin bitur er, Svo eg fordist þá sáru pín, Svoddan skal nú heit kvöldbæn mín, Í frá allri nevð Til eilífs lífs mig innleið.

## 50.

Lagið: Ef þú, kristin sál, athugar.

Athuga lát þú, ó Guð! mig, Oendanlig Helvítis hörð er pína, Svo að eg fordist svoddan böl Og sálar kvöl, Legg þar til liðsemd þína; Uppá þá trú Óhult sef nú. Þrenningin vís, Þitt lof og prís Ei nái um eilífð dvína!

b) Ut af þeim 30 Fædingarsálmum.

1.

Lagid: Upplyptu, sál min, eina stund.

O Jesú! heill min elskulig, J heiminn komstu, svo ad mig Eilifs deyds skattskrift frelstir frá; Fullviss um þad eg sofa má.

2.

Lagid: Medan dvaldist i Davids stad.

Fyrir holdgan og fæding þín, Frelsarinn Jesús! hjálpin min, Endurfæd aumian mig. J nótt vaktin þin ágætlig Um kring sæng mina breidi nú sig.

3.

Lagid: Gudspjallamann þess getur.

Heilagra engla herskarinn Hér á jørdu, Frelsari minn! Bodadi fæding frida þin, Fær þar af huggun sála min; Slikar himneskar hirdsveitir Haldi nú vøktun yfir mér, Svo eg óhræddur sofa fer.

4,

Lagid: Himneskir herskarar.

Fridinn þin fæding há Færdi og jørdu

á, Minn Jesú, mér hann tjá, Mun eg rótt sofa þá.

5.

Lagid: Þegar ad engla fylking frid.

Gef mér, frelsarinn fridi minn! Fjárhirdum med ad skoda Fædingar blídan fögnud þinn, Frelsun þau ord mér boda. Í nótt virstu mér vaka hjá, Verd eg fríadur eflaust þá Vid allskyns eymd og voda.

6.

Lagid: Hyrdarar héldu brátt.

Lof fyrir fæding þín Fritt lát mig vanda, O Jesú! í nótt pín Ei mun þá granda.

7.

Lagid: Átta dögum eptir þad.

Fyrir umskurn fagra þína, Frelsari minn! eg þig bid: Umsker jafnan öndu mína Illgjörda frá ljótum sid. Í nótt mín gæti Og neyd burt ræti Nákvæmast þitt verndar lid.

8.

Lagid I Betlehem þá borinn var.

O Jesú! nafn þitt ædsta, Eg bid af hjartans rót, Færi mér frelsun stædsta Frá djøfuls véla nót, I hverskyns harmi bót; Uppá þad óefadur Eg vil nú sofna gladur, Svo mig ei sakar hót.

9.

Lagid: I Betlehem þá borinn var,

Ords þíns leidstjørnu, ó Jesú! Af hjarta lát mér fylgja nú, Vidlikt og stjarnan vísar sín Vitringum leid ad stalli þín. I nótt sem ætid endrar-nær Ord þitt mig huggi, drottinn kjær!

10.

Lagid: Heródes fullur hræsni þá.

Heródis fals og fláttskapinn Fordast lát þú mig, Jesú minn! Eg svo med hræsni aldreii Af mér brjóti þitt hjálprædi, En aptur stundi einlæga Ást til Guds míns og náunga, Allskyns svikum

og ángurs pín Í nótt oss fyrdi gjæðsk-an þín.

11.

Lagið: Vitringar hlýtt nær hofðu.

Gef mér, góði Lausnari! Gullið trúar-innar, Meðan hér mæddur hjari, Og Mirru holds deyðingar, Item reikelsi bænar best Þér færa; þá eg reyni Þitt í nótt forsvar mest.

12.

Lagið: Hér næst þá dagur hreinsunar.

O Jesú kjær! eg bið þig, Unnustinn sálar minn, Ætíð virðist hreinsa aum-an mig Af óhreinleik syndarinnar, Fyrir þitt úthellt hjarta blóð Hvíld í nótt mér þá veitist góð Undir væng ástar þinnar.

13,

Lagið: Sjá þú, í Jerúsalem var.

O Jesú! mína sálar sjón Svo lát mig á þér festa, Sem sá guðhræddi Simeón, Sú er huggunin mesta, Í svodd-

an von og traustri trú Til þín flý hvörju sinni I mædu minni, Skýl þú, Drottinn! í nótt mér nú Nádar vernd undir þinni.

## 15.

Lagid: Simeon sveininn þann.

Svo lifa eg fari i frid, Frelsarinn gef þig bid, Fridar þins frelsid bjarta Fadmi í nótt mitt hjarta.

## 15.

Lagid: Og hans foreldrar undrast.

O Jesú! lát þú aldrei mig A þér hneixlast, þess bid eg þig, Gef mér ad elska ordin þín, I nótt þau séu huggun min.

## 16.

Lagid: Spákona hét þar Anna ein.

Eins og spákona Anna vel Ord þín Jesú! réd grunda, Gef mér svo hreint med hjartans þel, helst eptir þeim ad stunda, Musteri þitt, mun þá neyd stytt, Mig lát af alúd rækja, I nótt þér hjá, min heillin há, Hvild og ró vil eg sækja.

17.

Lagid: Og sem þau höfdu allt fullgjört.

Audleg gef framför eblist min, O, minn frelsarinn sæti! Svo eptir dygda dæmi þin Daglega þróast gjæti I alskyns dygd, fyrir utan stygd, Aumur á medan hjari; Frá eymda sótt Mig nú í nótt Nádin þin best forvari.

18.

Lagid: Jóseph birtist í draumi dýr.

Lát mig aldrei, ó Jesú kjær! A falska drauma trúa, I nótt, sem ætid endrarnær, Æ virst þeim frá mér snúa!

19.

Lagid: Uppstód Jóseph vid ordin téd.

O Jesú, heill min ástúdlig, Utlegd þú þoldir fyrir mig, Vitis útlegd svo frelstist frá; Forsjón þin há I nótt mér virdist vera hjá.

20.

Lagid: Þegar Heródes heyrdi þar.

Hastri brædi og haturs sid, Herra Jesú!

mér forda vid, Ólukku frá og allri pín
I nótt mig verndi gjæskan þín.

21.

Lagid: Heyrst hefur kall á hædum þar.

Aldrei lát mig, ó Jesú minn! Angra jardneskan missirinn, En þér einum fast halda; I nótt virdist almáttur þinn Um mig vernd sinni halda.

22.

Lagid: Enn þá Heródes hafdi.

Heródis heiptar næmi, Herra! lát ford-ast mig, Ei svo eptir hans dæmi Ilt taki hriggilig Megn gjøldin misgjørda; I nótt frá alskyns pínum Engla med skildi þínum Virdstu mig vardveita.

23.

Lagid: Jóseph tók med sér barnid.

O Jesú! þú edla víntré, Avøxtur Sar-ons réttur, Aumum gef mér eg ætíd sé Í þig vel gródursettur, Med sannri trú, Svo ad eg nú Synda frá skiljist gøllum,

Í nótt þig bið, Mig vernda við Voða og slisum öllum.

24.

Lagið: Árlega Jóseph meyu með.

Hvíldardaga og hátíðer, Herra! gef vel að rækja mér, Andagt svo með og eptirtekt Orð þitt eg stundi hjálpsamlegt. Það í nótt huggi og hressi mig, Hvíld min þá verður rósamlig.

25.

Lagið: Enn sem þeir dagar enda fá.

O Jesú! gef þú aumum mér Æ með trúnni behalda þér, Svo að eg aldrei sakni þín, Sértu í nótt varðveizlan min.

26.

Lagið: Minnumst við, sál min! enn þar á.

Guðhræddra selskap gef þú mér, Góði Jesú! að stunda hér, En heimsins forðast hrekkja sið, Hlíf þú í nótt mér slisum við.

## 27.

Lagid: Eptir þrjá daga dýra.

Ætíd gef ordum þínum, Eg trúi, Jesú minn! Svo eg í mædum mínum Mistryggi ei guddóm þinn, Heldur þig einan þekki Þýdt fyrir hjálprád mitt, Láttu andskotann ekki I nótt mér sýna hrekki, Og hverskyns hrelling stytt.

## 28.

Lagid: Þá hjónin son Guds sáu rétt,

Af dæmi þínu gef mér, O minn Jesú! ad læra, Vild þína stunda vel sem ber, Vís mér þá er Vernd þín í nótt frábæra.

## 29.

Lagid: Ferdadist Jesús þá med þeim.

Af hlýdni þinni, herra kær! Hlýdnina gef mér stunda, Svo eg elski þín ordin skær, I nótt lát vært mig blunda.

## 30.

Lagid: Eins dásamlega og upphaf tókst.

O Jesú! gef mér anda þinn, Ad eg daglega kynni Laga syndugan lifnad minn,

Ljóst eptir framför þinni, Í nótt sem ætíd endranær, Eg mig þér befel, Drottinn kær! Þín aldrei lofgjörd linni.

---

c) Ut af þeim 50 Passíusálmum.

1.

Lagid! Upp upp min sál og allt mitt géd!

Med gaungu þinni í Grasgardinn Gáng fyrir synda bættir minn, Endurlausnari ástkjæri! Eilíf vegsemd þér jafnan sé.

2.

Lagid: Jesús gekk inn í Grasgard þann.

Kvölin Grasgardsins framdi þig, Kjærasti Jesú! fyrir mig, Med henni bættir mína neyd, Mér af því veittist huggun greid; Hér fyrir nafn þitt hábleßad Háleitlega sé vegsamad.

3.

Lagid: Enn vil eg, sál min! uppá ný.

Daudastrídid þitt, Drottinn minn! Dauda

mins scfar harmkvælin, Audláts þar fyrir eptir tíd Óttalaust eg og gladur bid; Fyrir velgjørdir þessar þín Þakkar af hjarta sálin mín.

4.

Lagid: Postula kjøri Kristur þrjá.

Samtal, sem hélst vid sveina þín, Sæll Jesú! Grasgards framinn pín, Uppvekja láttu, eg bid þig, Uggaleysis af svefni mig.

5.

Lagid: Medan Jesús þad mæla var.

Í Grasgard komu Gydingar, Grípa þá létst þig Jesús þar, Audskotans makt svo ógnarlig Undir sitt vald ei hripsi mig; Elskunnar gjørning þennan þinn Þakka eg, ædsti herra minn! Heidur sé þér í hvort eitt sinn.

6.

Lagid: Frelsarinn hvørgi flýdi.

Ó minn Frelsarinn fridi! Flárædis leidstu koss, Svo djøfuls svikanidi Sist mætti hrella oss, Þú létst þig þræla

binda, Því urdum leystir vér Af sárum fjøtrum synda; Sé eilift losið þér.

7.

Lagid: Lausnarann lærisveinar.

O minn Jesú ástkjæri! Ei vildir hefna þin, Illir þó ad þér færi, Aukandi svik og pin; Lát hér af læra mig Med hógværd hrekki lída Og hefndir láta bída, En óttast einan þig.

8.

Lagid: Taladi Jesús tima þann.

Vanþøkk Júda gef varast mér, Velgjørd sem smádu þína, O minn Jesú! [redacted] ætíd þér Elsku og hlýdni sýna.

9.

Lagid; Þá lærisveinarnir sáu þar.

Lærisveinar þjer slúdu frá, Frelsari minn hinn blídi, Einsamall varstu eptir hjá Illskufullasta lýdi; Af því forlætur aldrei þú Einan mig nokkru sinni I mannraun minni, Følskum heims solli

frá mér snú, Flærd hans svo aung-
van ginni.

10.

Lagid: Til Hannas húsa herrann Krist.

Ransakid skarpt þoldir þú, Þýdasti herra, minn Jesú! Frá kløgun oss ad fria; Uppveki mig ad athuga Ástandid lífs míns daglegã, Sidur [redacted] synd þá drýgja.

11.

Lagid: Gudspjalls historian getur.

Lifandi lífsins herra, Lát Péturs afneitan, Svo ei vinni þad verra, Vera mér íhugan, Ad aldrei frá þér falli Í freka synda lyst, En þig ætíd ákalli, Svo eignist dýrdar vist.

12.

Lagid: Pétur þar sat í sal.

Álít mig eins, Jesú, í miskun þinni, Og Pétur ádur þú, Ydrast svo kynni.

13.

Lagid: Foringar Presta fengu.

Þú kløgun þoldir ránga, Þegjandi Jesú

minn! Ei mun því um mig gánga Á-kjæra djøfuls stinn; Asókn heims ærid strída, O herra, gef mér lida Med hóg-værd hvort eitt sinn.

14.

Lagid: Eptir þann dóm, sem allra fyrst.

O Jesú, þú leidst þræla spé, Par med frá forsmán eilifre Fullt hef eg ødlast frelsi og nád, Fordast lát þú mig spott og hád.

15.

Lagid: Mjøg árla uppi voru.

Arla, ó Jesú, héldu Yfir þér prestar rád, Og dauda dóm á feldu, Dýrdleg hugg-un og nád Ætid mér eykst af þessu, Er þad frelsunin min Frá hardri heljar pressu; Heidrist því mildin þín.

16.

Lagid: Júdas i girndar grádi.

Júdasar ágirnd illa Og flærdar bølvad tál Aldrei lát oss fast villa, O Jesú! mina sál, Eg bid [redacted] framar þig, Or-vænting yfrid skæda Alla virdst hjá mér græda, A lifs veg leid þú mig.

17.

Lagid: Svo sem fyrr sagt er frá.

Framandi í heimi hér, Herra minn! veittu mér, Sem Guds barn sé greftradur, Sál veitist dýrdar stadur.

28.

Lagid: Árla sem gløgt eg greina vann.

Þrefaldar sakir þvert á mót Þér færdu, Jesú mildi! Gydingarnir med heiptar hót, Hér svo eg kvittast skyldi Um þrefalt bann, Mig þvinga vann Þjakadan marga vega; Líku fyrir þá Þér lof vil tjá, Lausnarinn! eiliflega.

19.

Lagid: Gydingar høfdu af hatri fyrst.

Himnesk kóngs tign þín, herra minn! Huggar mig auman þrælinn þinn, Eg veit því ertu mér Vernd og forsvar í verøld hér; Veitt sé eilíf lofgjørdin þér.

20.

Lagid: Pilatus hafdi prófad nú.

O herra Jesú! þøgn med þín, Þegar

varst áklagadur, Bættir þú fyrir mælgi mín, Má eg því hjarta gladur Umbera allskonar, Árásir veraldar, Signad þitt sakleysi Søk mína borgadi, Vertu því vegsamadur.

## 21.

Lagid: Þegar Heródes herrann sá.

Heródis fýsni holdlega, Herra! mig forðast láttu, En øllu framar athuga Eigin lifnadar háttu, Fatid hvitt barstu forsmánar, Frelsari minn, hinn kæri! Svo ad eg bæri Hvítfágad klædi helgunar; Heidurinn þér því færi.

## 22.

Lagid: Frá Heródes þá Kristur kom.

Júdar med blindad illsku óp, O Jesú! krossfestingar hróp Óvægir gjørdu yfir þér, Eg því sannlega frelstur er Helvítis veins frá hardri pín; Hér fyrir prísist gædskan þín.

## 23.

Lagid: Pilatus herrann hædsta.

Herra Jesú! harmkvæli, Húdstrýking

þúngri í Leidslu, svo þínum þræli Par gefist huggun ný; Fullkomlega eg frelstur er Helvítis frá húdstroku. Heidur sé, drottinn, þér.

24.

Lagid: Illvirkjar Jesúm eptir bad.

Ad þínu høfdi þyrnikrans Þreingdu, ó Jesú kæri! Hrekkvísir þrælar hirdstjórans, Herleg svo skeinkt mér væri Heidurs kóróna himnum á; Hér fyrir vil þér lofgjørd tjá, A medan mig eg hræri.

25.

Lagid: Landsdómarinn þá leiddi.

Eg nýt útleidslu þinnar, Astkæri frelsarinn! Er hún útfarar minnar Inngánga í himininn; Hér af gledst hugur minn; Fyrir þá frelsun skæra Fagurt lof, pris, og æra, Sé þér í hvert eitt sinn.

26.

Lagid: Hér þá um Guds son heyrdi.

Heimsins ofhrokann illa Og bølvad ránglæti, Sem vann Pilatum villa, Veit ad

eg umflýi, O Jesú allrar mildi, En bless-
ad veldid þitt Hafi i hædsta gildi; Hlif
mér med verndar skildi, Mædu stund
mun þá stytt.

27.

Lagid: Pilatus heyrdi hótad var.

Kóngs tign þín, Jesú! eilif er, Undir
þinni gef stjórnan mér Framgánga rétt,
svo fordist pin; Frelsarinn, heyr and-
varpan min!

29.

Lagid: Pilatus sá ad sønnu þar.

Hræsni bølvada úr hjarta mér, Hvør
illa skartar fyrir þér, Burttak, Frelsari
mæti minn! Mig virdstu gjøra hrein-
skilinn, Urskurdar harka andláts þin
Alyktun sé friunar min; En úthellt bless-
ad blódid þitt Besta grædsla og frels-
id mitt.

29.

Lagid: Seldi Pilatus saklausan.

Fyrst þú varst dæmdur, drottinn hár!

Dauda til ósekadur, Sekum mér veitt-
ist verndin klár Vid vitis fár; Vertu
því hátt lofadur!

30.

Lagid: Stridsmenn Krist úr kápu færdu.

Þú barst krossins þúnga módur Þér
á herdum, drottinn minn! Auk mér
styrk, ad eg þolgódur Allskyns lidi mót-
gánginn, Loks svo med þér, mínum bród-
ur, Mætust hreppi umskiptin.

31.

Lagid: Fólkid, sem drottni fylgdi út.

Ræda þín, Kriste! kvinnur vid, Kross
ádur leidstu dauda, Knýi mig gráta
synda sid, Svo vitis kenni ei nauda.

32.

Lagid: Greinir Jesús um græna tréd.

O Jesú! lífsins eikin græn, Eik mér
þornadri veit þá bæn, Ad sætust nádar
saftin þín Sálu ørþyrsta vøkvi mín.

33.

Lagid: Kom loks med krossins byrdi.

Krossins hørd kvala pína, Kriste! sem

leidstu hér, Holds girnd hrekkvisa mina Hvørn tima deydi í mér; Eg þá full-trúa er, Ad kvittun hýra hljóti Og hædsta Guds fridar njóti; Drottinn minn, dýrd sé þér!

34.

Lagid: Þegar kvalarar krossinn á.

Bón þin, minn fridi frelsari! Fyrir ó-vinum þinum, Er keirdu þig á krossins tré, Kjæti lér huga minum; Af því eg veit þin árnan trú Ædstan Gud vid mig sættir nú, Synda svo sviptist pinum.

35.

Lagid: Utskrift Pilatus eina lét.

Utskrift, sem fest var yfir þér, O minn frelsari blidi! Yndi og huggun eykur mér, Ekki því neinu kvidi; Af mér er lypt Hardri handskrift Hótadri i løgmáls greinum. Undir stjórn þin, Sem aldrei dvin, Eg lifi fri frá meinum.

## 36.

Lagid: Strids menn þá höfdu krossfest Krist.

Klædum þín, hjartans herra minn! Heidnir skiptu med sér, Af því ræd eg ad á krossinn Upphengdur varstu ber; Med þessu keyptir klædnadinn Kláran réttlætis mér. Lof fyrir gjørning þennan þinn Þér sé um eilífder!

## 37.

Lagid: Uppreistum krossi herrans hjá.

Mildi Jesú! sem módur þín Mæddri rédst forsvars leita, Þegar þig krossins þjádi pín, Þú munt ei heldur neita Um þitt hjálprædi aumum mér; Af øllu hjarta treysti eg þér, Forsjón og vernd ad veita.

## 38.

Lagid: Þeir, sem ad Kristi krossi senn.

Þú brixlin krossi þoldir á, Þýdasti Jesú mildi! Eg svo af hádúng, hrygd og þrá Helvitskri leysast skyldi. Fyrir velgjørning þennan þinn Þér greidist lof marg=

falda, Háleitt þitt nafnid, herra minn! Heidrist um aldir alda.

39.

Lagid: Annar ræninginn ræddi.

Ræninginn rédi leita Ríkis þíns, Drottinn minn! Eins hjartans ydran heita Uppvek hjá mér hvert sinn; Forherdingu vid forda, Frids medan stendur tíd, Leid mig veg lífsins orda; Lof sé þér ár og síd!

40.

Lagid: Uppá ræningjans ord og bón.

O Jesú! gef svo ydrast mér Allra synda, sem drýgda eg hér, Ad loks innleidist øndin mín Í Paradísar víst til þín.

41.

Lagid: Um land gjørvallt vard yfrid myrkt.

Forlátinn kvadst þig, herra hreinn! Hædstum af fødur þínum, Dimmunni í þá daudans fleinn Dróst ad þér krapt med sínum; Aldrei mig því í eymdum mín Yfirgefur miskunin þín, Hægd er þad huga mínum.

42.

Lagid: Í sárri neyd, sem Jesús leid.

Um þorsta þú, Þýdi Jesú! Þúnglega nád-

ir kvarta, Þurk vítis þá Mig frelstir frá; Fyrir það há Færist þér dýrd af hjarta.

43.

Lagið: Eptir að þetta allt var sked.

Fullkomna náð og frelsi mér Fullkomnað, þú minn Jesú! tér, Þegar á krossi þoldir þín; Þar fyrir prísist gæðskan þín!

44.

Lagið: Hrópaði Jesús hátt í stað.

Lát blessuð andláts orðin þín Í hug mér jafnan standa, Svo ætíð feli eg öndu mín, O Jesú! þér til handa.

45.

Lagið: Þá frelsarinn í föðurs hönd.

Endurlausnarinn ástkæri! Andlátið þitt á krossins tré Makt og abl dauðans yfirvann, Ekki grimmd hans mig snerta kann; Feiginn því skil eg veröld við, Viss um gleði og sálar frið.

46.

Lagið: Þegar Kristur á krossins tré.

Undur sem skeði í afgáng þín, O minn

frelsari mæti! Hjartans idur lát hræra min, Hrekki svo varast gæti; Þínum vanmætti mesta | Mátt þinn og krapt þau sýndu fri. Dýrd sé þér, drottinn sæti!

47.

Lagid: Kunningjar Kristi þá.

Kross þins eg kunninginn Kem til þín, Jesú minn! Lausn þar og lækning finn; Lof sé þér hvert eitt sinn!

48.

Lagid: Ad kvøldi Júdar frá eg færi.

Af sidu og hjarta sári þinu Signad blód og vatn út rann, Herra minn! sem hjarta minu Hrelldu lausn og svølun fann; Heitu losi hjartans sinu Hver þér offri kristinn mann.

49.

Lagid: Jósepþ af Arimatia.

Gódi Jesú! med greptran þin Greptrun hefur þú helgad min, Og minar grafid misgjørdir; Margføld hér fyrir dýrd sé þér.

50.

Lagid: Oldúngar Júda annars dags.

Af vakt grafar upprisa þin, O Jesú! mér fyrir sjónum skin, Fullnadar bót þvi útløgd er Fyrir alla af þér; Heidri þig allt, sem hræring ber, Amen.

